PATRONIZE OUR ADVERTISERS — They Are Helping To Make This Timarit Possible.

# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

XLVIII. ÁRGANGUR

---

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem beztir borgarar í hérlendu þjóðlífi.

2. Að styðja og styrkja íslenzka tungu og bókvísi í Vesturheimi.

3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

**Meðlimagjald $2.00 á ári**

---

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**

Winnipeg, Canada

# IN MEMORIAM

HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
His Excellency the Rt. Hon. The Earl of Athlone, K.C.
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephanson, skáld
Frú Stefanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson, læknir
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona
Friðrik Hallgrímsson, dómprófastur
A. S. Bardal, útfararstjóri
Ólafur Pétursson, fasteignasali
Sveinn Björnsson, forseti Íslands
Árni Pálsson, prófessor
Sigurgeir Sigurðsson, biskup
Ásmundur P. Jóhannsson
Dr. A. H. S. Gilson, U. of M. Pres.
Einar Jónsson, myndhöggvari
Jón J. Bíldfell, fyrrum ritstjóri
Einar Sturlaugsson, prófastur
Þ. Þ. Þorsteinsson, skáld
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld
Gunnar B. Björnsson
G. J. Oleson
Halldór Hermannsson, prófessor
Dr. theol. Rúnólfur Marteinsson
Einar Páll Jónsson, ritstjóri og skáld
Dr. Þorkell Jóhannesson, háskólarektor
Rt. Rev. C. V. Pilcher, Sydney, Australia
Dr. John C. West, fyrrv. forseti U. of N.D.
Dr. Vilhjálmur Stefánsson
Thor Thors, sendiherra
Hon. Gudmundur Grimsson, Bismark
Mrs. Kristin Thorsteinsson, Gimli
Dr. Thorbergur Thorvaldson, Saskatoon
Guttormur J. Guttormsson, skáld

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1966

### A. Heiðursverndarar (Honorary Patrons)

George P. Vanier, D.S.O., M.C., C.D., Governor-General of Canada.
Herra Ásgeir Ásgeirsson, forseti Íslands.
His Excellency the Honourable Vincent Massey, former Governor-General of Canada.

### B. Heiðursfélagar (Honorary Members)

Prófessor Sigurður Nordal, Reykjavík, Ísland
Dr. Watson Kirkconnell, President, Acadia University, Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Toronto, Ont.
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, ritstj. Hlín, Blöndósi, Ísland
Jónas Jónsson, fyrrv. alþingismaður, Reykjavík, Ísland
J. T. Thorson, fyrrv. yfirdómari, Ottawa, Ontario
Árni G. Eylands, stjórnarráðsfulltrúi, Reykjavík, Ísland
Vilhjálmur Þór, bankastjóri, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Manitoba
Próf. Ásmundur Guðmundsson, fyrrum biskup Íslands
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Washington
Pófessor Richard Beck, Grand Forks, North Dakota
Dr. Helgi P. Briem, fyrrv. sendiherra, Reykjavík, Ísland
Sigurður Þórðarson, söngstjóri, Reykjavík, Ísland
Dr. Árni Helgason, raffræðingur, Chicago, Ill.
P. H. T. Thorlakson, M.D., Winnipeg, Manitoba
Stefán Einarsson, fyrrv. ritstjóri Heimskringlu, Vancouver, B.C.
Dr. Stefán Einarsson, próf. emeritus, Reykjavík, Ísland
Gunnar Thoroddsen, sendiherra, Denmark.
Valdimar Björnsson, ríkisféhirðir, Minneapolis
Guðmann Levy, fjármálaritari Þjóðræknisfélagsins, Winnipeg, Manitoba
Dr. theol. Valdimar J. Eylands, Winnipeg, Manitoba
Hon. John G. Diefenbaker, fyrrverandi forsætisráðherra Kanada
Hon. Dufferin Roblin, forsætisráðherra Manitobafylkis
Guðmundur Í Guðmundsson, fyrrv. utanríkisráðherra Íslands
Sigurður Sigurgeirsson, bankaritari, Reykjavík, Ísland
Ólafur Hallsson, Eriksdale, Manitoba
Dr. H. H. Saunderson, President University Manitoba
Dr. Finnbogi Guðmundsson, Reykjavík, Ísland.
Einar Baldvin Guðmundsson, formaður H/F Eimskipafjelags Íslands.
Bjarni Benediktsson, forsætisráðherra Íslands
Grettir Leo Johannson, ræðismaður, Winnipeg, Man.
Ingibjörg Jónsson, ritstjóri Lögbergs-Heimskringlu, Winnipeg, Man.
Ambassador Pétur J. Thorsteinsson, Washington, D. C.

**C. Styrktarfélagar**

**Sustaining members for 1966.**

Mrs. Kristín R. Johnson

Mr. Walter Johannson, Pine Falls.

Mrs. Louisa G. Gíslason, Morden.

Mr. Grettir Leo Johannson.

Dr. & Mrs. Richard Beck, Grand Forks.

**D. Life members**

K. Valdimar Björnson, Minneapolis, Minn., U.S.A.

Björn Björnson, Consul of Iceland, Minneapolis, Minn., U.S.A.

Dr. Helgi P. Briem, Reykjavík, Iceland

Grettir Eggertson, Winnipeg, Man.

Dr. Árni Helgason, Consul of Iceland, Wilmette, Ill., U.S.A.

Eric Ísfeld, Winnipeg, Man.

Grettir Leo Johannson, Consul of Iceland, Winnipeg, Man.

J. Walter Jóhannson, Pine Falls, Man.

Mrs. B. E. Johnson, Winnipeg, Man.

Guðmann Levy, Winnipeg, Man.

Mrs. Anna Margrét Levy, Winnipeg, Man.

Óskar E. Levy hreppstjóri, Ósum, Húnavatnss., Iceland

Gunnar R. Pálsson, Lake Park, Florida, U.S.A.

Rev. P. M. Pétursson, Winnipeg, Man.

Árni Sigurðsson, Seven Sisters Falls, Man.

Dr. P. H. T. Thorlakson, Winnipeg, Man.

Dr. Richard Beck, Grand Forks, N. Dak.

Mrs. Margret Beck, Grand Forks. N. Dak.

Brynjólfur Jóhannesson, leikari, Reykjavík, Ísland.

Prof. Dr. Helgi Johnson, R. R. 3 Somerset, New Jersey, N.Y., U.S.A.

Hannes J. Petursson, Toronto, Ont.

1. ÍSLAND

**E. Ársfélagar**

Jóhannes Eiríksson, Kristneshæli, Eyjafjarðarsýslu

Seðlabanki Íslands, Reykjavík

Séra Ásgeir Ingibergsson, Hvammi í Dalasýslu.

2. ENGLAND

The Library, University College, London. Gower Street, W. C. L., England.

3. REPUBLIC OF IRELAND

Dr. James Delargy Director "Irish Folklore Comm," University College, Dublin 2.

4. CANADA

**Atikokan, Ont.**
Einar I. Swanbergson

**Baldur, Man.**
Hansina Gunnlaugson
Mrs. B. K. Jónsson
Mrs. Rose Lewis
Mrs. J. A. Sveinsson

**Brandon, Man.**
Dr. E. J. Skafel
Mrs. Elin M. Hood
Miss Helen Bjarnason

**Elfros, Sask.**
Helgi Hornfjörð
Rósmundur Árnason

**Foam Lake, Sask.**
Mrs. Steinunn Inge.

**Eiriksdale, Man.**
Mrs. J. R. Johnson.
Miss Emma J. Sigurdson.

**Hayland, Man.**
Sigurður B. Helgason

**Kristnes, Sask.**
Guðmundur Stefánsson
Bæring Gablielsson

**Leslie, Sask.**
Ásgeir Gíslason

**Matheson Island, Man.**
Árni G. Johnson

**Chilliwack, B. C.**
Mr. and Mrs. K. A. Magnússon.

**Langruth, Man.**
Mrs. B. Bjarnason,
V. Valdimarson.
Mrs. J. (Kristlaug) Finnbogason

**Islington, Ont.**
Mrs. Ragnhildur Guttormsson.

**Kinsota, Man.**
Sveinn Johnson

**McCreary, Man.**
Mrs. Hilda Crout

**Prince Rupert, B. C.**
Mrs. K. Einarsson

**Ottawa, Ont.**
August S. Johnson.

**Regina, Sask.**
Mr. and Mrs. Hafsteinn Bjarnason.

**Shaunavon, Sask.**
S. H. Skaftfeld

**Riverton, Man.**
Hallgrímur Joh.Stadfeld
Valgeir G. Stadfeld
M. Coghill
Kris. Thóransson
S. B. Johnson
Guðjón E. Johnson

**Toronto, Ont.**
H. J. Péturson.
Mrs. H. L. Robson

**Vancouver, B.C.**
Mrs. Alla Warburton
Herman Sigurdson
Mrs. Thordis Fisher
Percy G. Moore

**Swan River, Man.**
Mrs. Lára Sveinsson

**Westbourne, Man.**
Mrs. Guðrún Thorsteinsson

**Winnipeg, Man.**
Mrs. L. A. Björnson
J. A. Eastman
Mrs. Alma S. Eastman
Miss Vilborg Eyjólfsson
Miss Carolina Gunnarsson
Mrs. Sara Gillies
Mrs. Gyða Hurst
Halldór J. Stefánsson
David Björnson
Mrs. Rose Björnson
G. F. Jónasson
Loyd Magnus
J. M. Page
Simon Shannon
J. H. Johnson
Miss Katrín Brynjólfsson
Magnús Elíasson
Mr. and Mrs. Earl J. Helgason
Mrs. Maria Sivertson
Mrs. Halldóra Peterson
Bjorn Johnson
Mrs. Maude McCreery
Mrs. Lara B. Sigurdson
Mrs. Kristin Depoe
Mrs. Elizabet Zimmerman
Miss Fanney Sigurdsson
Mr. Haraldur Einarson

**White Rock, B.C.**
Kristinn O. Oddson

**Wynyard, Sask.**
Magnús Jónasson
Mrs. Gudrun Finnson

5. BANDARÍKIN

**Boston, Mass.**
Kormákur Ásgeirsson
Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Valgeir Einarsson
Kapt. Thor Guðmundss.
Kapt. Guðm. Jóhanness.
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theodór Jónsson
Guðmundur Pálsson

**Cashmere, Wash.**
Chris Guðmundson

**Charlottesville, Virg.**
Prof. R. L. Kellogg

**Ft. Landerdale, Fla.**
Gunnlaugur Illugason

**Grand Forks, N. Dak.**
Mrs. V. Guðmundson, University of N. Dak. Library
Dr. Arne Brekke, University of N. Dak.
Emilie J. Anderson

**Ithaca, N.Y.**
Vilhjálmur Bjarnar

**Bremerton, Wash.**
Rev. G. P. Johnson

**Chigago, Ill.**
George Hanson

San Diego, Calif.
Mrs. J. K. Steinberg

**Seattle, Wash**
Rev. and Mrs. Kolbeinn Seimundson
Mrs. Inga E. Johnson

**Lincoln, Nebraska**
Prof. Paul Schach

**Hopple, N. Dak.**
Mrs. Laufey Aaland

**New Brunswick, N.J.**
Prof. Helgi Johnson, Rutgers University Library

**Minneapolis, Minn.**
G. T. Athelstan
Mrs. Edda Laxdal
Miss Hjördís Bjarnason
Mrs. Margret Arnar

**Rochester, Minn.**
Thorey J. Sigurjonsdottir, M.D.
S. E. Thorvaldson, M.D.

**New Haven, Conn.**
Yale University Library

**Hickville, L.I., N.Y.**
Olaf Helgason

**Oceanside, L.I., N.Y.**
Andrés Guðmundson

**Portland, Oregon**
Miss Ollie Gislason

**Salinas, Calif.**
Prof. Loftur Bjarnason

4. DEILDIR OG SAMBANDSFÉLÖG

**The Icelandic Society of New York**
Hannes Kjartansson
Jerome Miller
Mrs. Jerome Miller
Miss Halldóra Rútsdóttir
Ludvik Jónsson
Richard Richardson
Mrs. Margrét Rossback
Mrs. Thorey Vogle
Edward Eoulfield
D. Sommerfield
Árni Ólafsson
Capt. Olaf Olsen
Capt. Magnús Norðdahl
Mrs. William Richards
Mrs. Eane Thomson
Mrs. Nanna Kolberg

**Deildin „Ísland", Morden, Man.**
Forseti
Willie Olafson
Stefán G. Einarson
Ben S. Einarson
Lorry Einarson
Andy Gíslason
Ingi Olafson
Paul Sigurdson
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Óli Lindal
Mrs. Freda Lindal
Mrs. Willie Ólafson
Willie Ólafson
Jóhann P. Thomasson
Thomas Thomasson
Mrs. Kristín Thomasson
Guðrún Thomasson
Janathan Thomasson

**„Brúin", Selkirk, Man.**
Forseti
Jack Björnson
Varaforseti
Th. Skagfjörð
Skrifari
Guðrún Vigfússon
Féhirðir
Allie Goodbrandson

# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

FERTUGASTI OG ÁTTUNDI ÁRGANGUR, 1966

Ritstjórar
GÍSLI JÓNSSON
HARALDUR BESSASON




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1967

# Myndir



PRENTAÐ HJÁ COLUMBIA PRINTERS, WINNIPEG

# Efnisyfirlit



Guttormur J. Guttormsson.

DR. RICHARD BECK:

# Guttormur J. Guttormsson skáld

**Nokkur kveðjuorð.**

Falla mínir fornu vinir,
falla traustir ættarhlynir.
Auðn í vorum skáldaskóg.
Hátt þig bar í lundi ljóða,
ljómi þinna kvæðaglóða
bjarma á ættjörð björtum sló.

Þessar ljóðlínur fæddust, þegar mér barst fregnin um andlát Guttorms J. Guttormssonar skálds. Vel má vera, að þær séu ekki mikill skáldskapur; hinu verður ekki á móti mælt, að þær eru sannmæli. En Guttormur lézt, eins og kunnugt er, á sjúkrahúsi í Winnipeg 23. nóv. 1966, rúmum degi eftir að hann varð 88 ára, en hann var fæddur að Víðivöllum í Nýja Íslandi 21. nóv. 1878. Með honum er eigi aðeins að velli fallið svipmikið skáld og merkilegt, heldur einnig sterkur og mjög sérstæður persónuleiki, er lengi mun minnisstæður samtíðarmönnum hans, og þeim lengst, sem kynntust honum mest og bezt.

Hann var, eins og þegar hefir verið sagt, kynborinn sonur Nýja Íslands í Manitoba, fæddur og alinn upp í íslenzku landnámsbyggðinni á þeim slóðum, þegar frumherjarnir háðu þar sína raunaþungu en hetjulegu brautryðjendabaráttu. Fór það að vonum, að bernsku- og æskuumhverfið og hin hörðu kjör, sem foreldrar hans og aðrir Íslendingar áttu þar við að búa framan af árum, orkuðu djúpt á Guttorm og settu varanlegt mark á lífshorf hans og skáldskap.

Sama máli gegnir um menningarlega umhverfið, sem hann ólst upp í, en það var háíslenzkt, í rauninni beint framhald af íslenzkri alþýðumenningu heima á ættjörðinni. Hefði þessu eigi verið þannig farið, hefði Guttormur hvorki orðið eins mikill Íslendingur né heldur eins sérstætt skáld og raun ber vitni. Trúnaðurinn við ætt og erfðir var honum runninn í merg og bein, og er ósjaldan bæði uppistaðan og ívafið í kvæðum hans. Réttilega og viturlega sækir hann að vísu ósjaldan yrkisefni sín í daglega lífið umhverfis sig, en hann fer um þau íslenzkum höndum, ef svo má að orði kveða, bæði um mál og ljóðform. Þannig sver hann sig ótvírætt í ættina til eldri íslenzkra skálda.

„Fjórðungi bregður til fósturs," segir hið fornkveðna. Ætternislega sannaðist það á Guttormi í ríkum mæli. Hann var af traustum og kunnum austfirzkum ættstofni, og foreldrar hans voru bæði prýðilega gefin og bókhneigð. Móðir hans, er var söngelsk og hafði fallega söngrödd, var skáldmælt vel, og faðir hans, er var gæddur snjallri frásagnargáfu, var einnig bæði sönghneigður og listfengur. Sjálfur var Guttormur söngelskur mjög og stofnaði hljómleikaflokka og stjórnaði þeim í Nýja Íslandi og víðar í byggðum Vestur-Íslendinga.

Foreldra sinna, Jóns Guttormssonar og Pálínu Ketilsdóttur, brautryðjendabaráttu þeirra og æskuheimilis síns, hefir Guttormur minnzt sonarlega í ágætri og mjög fróðlegri grein í bókinni **Foreldrar mínir** (Reykjavík

1956). En ungur að aldri missti hann þau bæði og varð því snemma að fara að sjá fyrir sér sjálfur. Vann hann fram eftir árum að margvíslegum störfum, en lengstum ævinnar var hann bóndi, og frá 1911 og til dauðadags bjó hann á föðurleifð sinni, Víðivöllum við Íslendingafljót. Það er því ekki orðum aukið, að hann hafi orðið að hafa skáldskapinn og önnur ritstörf sín í hjáverkum frá tímafrekum og lýjandi skyldustörfunum. Af fyrrgreindum ástæðum má það einnig augljóst vera, að skólaganga Guttorms var af mjög skornum skammti, en hann bætti sér það upp með víðtækum lestri, og átti stórt og merkilegt bókasafn.

Þegar þess er hins vegar gætt, undir hve andvígum skilyrðum Guttormur vann hin bókmenntalegu störf sín, verður það ennþá athyglisverðara og aðdáunarverðara, hve mikið liggur eftir hann af ritstörfum í bundnu máli og óbundnu og hve margt af því bar aðalsmark hins sanna skáldskapar um hugkvæmni, frumleik og málsnilld. Umfangsmest er ljóðagerð hans og hæst náði hann í þeirri skáldskapargrein, en um upptalningu ljóðabóka hans og önnur rit og ritstörf leyfi ég mér að vísa til ritgerðar minnar um hann áttræðan í þessu ársriti 1959.

En skáldskapur Guttorms er eigi aðeins mikill að vöxtum, heldur einnig harla fjölskrúðugur um viðfangsefni, meðferð þeirra og svip. Ljóðagerð hans er, í stuttu máli, ágætlega lýst í þessum orðum Helga Sæmundssonar í grein hans í tilefni af Íslandsferð Guttorms 1963, „Skáldbóndi í heimsókn" (**Alþýðublaðið**, 19. júní 1963):

„Guttormur hugsar iðulega austur um haf í ljóði, en hann yrkir líka oft um fósturjörð sína, Nýja Ísland, og ber henni söguna af karlmannlegri hreinskilni. Kvæði hans um baráttu frumbýlingsáranna þarf varla að kynna, en af þeim ber sennilega Sandy Bar hæst. Guttormur man glöggt þraut foreldra sinna og samferðamanna þeirra heiman af Íslandi. Sjálfur hefir hann átt við fátækt að stríða, unnið hörðum höndum langan dag og verið úti í misjöfnum veðrum. Alls þessa gætir í ljóðum hans, en Guttormur yrkir líka um frjósemd og mildi Kanada, sléttuna, sem hefur brauðfætt hann, vatnið og bjartan morgun, fagurt hádegi og blítt kvöld. Jafnframt eru á skáldhörpu hans strengir, sem túlka fjalladyn, stormaþyt og vatnagang, æsta hríð, dimma nótt og vindbarinn skóg. Ennfremur lýsir hann ógleymanlega daglegum störfum vestur-íslenzka bóndans og einnig á táknrænan hátt, því hann er meistari tvíleikans, þegar honum tekst bezt upp í kvæðum sínum. Þá rís skáldskapur Guttorms eins og fjall af sléttu, og ljóðstíll hans verður í senn sterkur og margþættur. Sá kveðskapur er íslenzkum bókmenntum mikill fengur.

Frásagnir og lýsingar láta Guttormi J. Guttormssyni vel í ljóði, en þó finnst mér kannski mest til um þann skáldskap hans, sem er táknrænn og heimspekilegur. Guttormur er harla ádeilugjarn, en tvíleikur þeirra kvæða hans bjargar þeim blessunarlega oft frá því hlutskipti að vera aðeins hávær áróður. Þess vegna munar um Guttorm, þegar hann fordæmir ranglæti og tekur

málstað smælingja, sem standa höllum fæti.

Loks ber þess að geta, að Guttormur er fyndinn og hnittinn, ef hann vill beita þeirri íþrótt. Ég ætla, að hann sé snjallasta kímniskáld Vestur-Íslendinga eftir Káin, og á þeim glímupalli reynist hann bæði fjölbrögðóttur og harðskeyttur. Þar sameinar hann skemmtilega hugkvæmni og skapríki."

Hér verður ekki farið út í það að rekja efni einstakra kvæða Guttorms, þó meir en verðugt væri. En réttilega leggur Helgi Sæmundsson áherzlu á það í skilningsríkum ummælum sínum um skáldið, hve sterkum böndum hann er tengdur ættjörðinni, Íslandi, og fæðingarsveit sinni og heimahögum í Nýja Íslandi.

Eins og ég hefi sagt annars staðar, sameinar Guttormur þetta tvennt á hinn fágætasta og eftirminnilegasta hátt. Í skáldskap hans renna straumarnir frá hinu landfræðilega og menningarlega umhverfi hans í Canada og áhrifin frá íslenzkum bókmenntum og menningarerfðum saman á mjög merkilegan hátt. Yrkisefni hans eru ósjaldan rammcanadisk, gripin beint úr daglega lífinu umhverfis hann, t. d. í kvæðunum „Býflugnaræktin", „Indíánahátíðin", „Birnirnir" o. fl., en þau eru færð í frábærlega íslenzkan málbúning, bæði um bragarhætti og orðalag, þó að skáldið fari oft eigin götur í þeim efnum, smíði algerlega nýja ljóðhætti og noti orðin í óvenjulegum samböndum til þessa að túlka nýjar hugsanir. Málfar hans er í senn bæði kjarnmikið og rammíslenzkt.

Beint og óbeint hefir þegar verið vikið að lífsskoðun Guttorms, eins og hún lýsir sér í kvæðum hans. Hann greiddi óréttlæti og hverskonar kúgun, óheilindum og yfirborðsmennsku, þung svipuhögg í ádeilum sínum. En lífsskoðun hans var eigi að síður jákvæð. — Víða kemur fram í kvæðum hans djúp og sterk samúð með þeim, sem eiga í vök að verjast og bera skarðan hlut frá lífsins nægtaborði. Enda komst hann svo að orði í merku viðtali við Matthías Jóhannessen ritstjóra (**Morgunblaðið**, 16. júní 1963): „Ég trúi á mannúðarkenningar Krists." Það var kjarninn í hans trúarskoðun. Annars mun honum ekki gert rangt til, þó sagt sé, að hann hafi verið efasemdarmaður, leitandi andi, í trúarefnum.

En upp á Guttorm má hiklaust og afdráttarlaust heimfæra þessi orð hans um Káinn:

Þar er merkur, mætur, heill
maður á bak við kvæðin.

*

Það var íslenzkt haustveður, svalt og bjart, þegar Guttormur var til moldar borinn í Riverton á heimaslóðum sínum. Þegar við ókum af stað þaðan á leið til Winnipeg, varð mér litið í áttina til Sandy Bar, og orð skáldsins úr samnefndu, fögru og frægu, kvæði hans urðu mér að lifandi veruleika:

. . . . . . heiður himinn
hvelfdist yfir Sandy Bar,
himinn, landnám landnemanna
ljómaði yfir Sandy Bar.

Landnámsmaður í ríki andans, sem numið hafði íslenzkum bókmenntum nýtt landnám, hafði horfið á vit feðra sinna í landinu ókunna handan grafar.

RICHARD BECK:

# Tvö kvæði úr Noregsferð

## FJALLASÝN Í RAUMSDALSFIRÐI

(15. júní 1966)

Hvítir rísa Tröllatindar,
tignir, út við sjónarrönd.
Mildir sofa sumarvindar
sætt og rótt viði dreymna strönd.

Svönum lík í sólarbjarma
sigla ský um loftin há,
mjúkra vængja vefja arma
vanga hlíða og fjöllin blá.

Fjörður lygn í faðmi tinda
fagur speglar dýrðarsýn.
Heimur æðri undramynda
innri sjónum mínum skín.

## MORGUNN Í NORÐFIRÐI

(17. júní 1966)

Hér standa fjöll um fornar slóðir vörð,
en fögur vorblóm prýða græna jörð,
og horfa út á himinbláan fjörð.

Um fannkrýnd höfuð leikur geislaglóð,
en glaðir þrestir syngja morgunljóð,
og hamrar taka undir þeirra óð.

Í laufi hvíslar léttur sævarblær,
á lundi skóga gullnum roða slær;
við sólarrisi fjallafossinn hlær.

Hér yngir huga yndisleikans mynd,
með ódauðleikans svip um strönd og tind,
er mótast djúpt í minninganna lind.

HARALDUR BESSASON:

# Af blöðum Stephans G. Stephanssonar

I

Þann 28. ágúst 1878 fór fram brúðkaup þeirra Stephans G. Stephanssonar (Stefáns Guðmundssonar) og Helgu Sigríðar Jónsdóttur frá Mjóadal í Bárðardal. Brúðkaupið fór fram í Shawano héraðinu í Norður Wisconsin. Efni Stephans voru þá samkvæmt eigin sögn, „liðugar 160 ekrur afhöggvins furuskógar, kröksettar stórstofnum og sendnar, 12 ekrur hafði ég hreinsað að mestu; allgott íbúðarhús, eftir því sem þar tíðkaðist, og 3 eða 4 nautgripir, og „giftingartollurinn" í peningum, sem séra Páll Þorláksson vildi ekki þiggja, bæði af því, að honum var vel til mín, og svo hins, hann bað mig „að leyfa sér að gera fyrir ekkert fyrsta prestverkið," sem hann gerði fyrir Íslending." (Bréf og ritgerðir IV, 80).

Af framanskráðu má sjá, að vinátta hefir verið með þeim Stephani og séra Páli. Ekki mun þó prestinum hafa þótt Stephan alls kostar leiðitamur í trúmálum og beindi til hans skeyti úr prédikunarstóli fyrir það að hafa líkt Opinberunarbókinni við Gandreið Benedikts Gröndals (Bréf og ritgerðir IV, 96). „En jafngóður var Páll mér eftir sem áður, og aldrei minntumst við á þetta," segir Stephan (s. st.).

Árið 1880 fluttust þeir séra Páll og Stephan til Norður Dakóta, og var Stephan þar í söfnuði séra Páls, þangað til hinn síðarnefndi lézt árið 1882.

Eftir andlát séra Páls Þorlákssonar klofnaði íslenzki söfnuðurinn í Norður Dakóta. Stephan G. fylgdi þeim hlutanum, sem nefndist Parksöfnuður. Hefir hann sjálfur ritað, að sá söfnuður hafi fylgt nýju guðfræðinni. (Bréf og ritg. I, 283).

Á fyrsta ársþingi „Hins evangelíska lútherska kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimi", sem efnt var til í Winnipeg vorið 1885, mætti Stephan G. með fjórum öðrum fulltrúum frá Parksöfnuði. Á þinginu komu fram raddir um það að gera Stephan að ritara kirkjufélagsins, en hann baðst undan því embætti. Nokkru síðar sameinuðust íslenzku safnaðarbrotin í Norður Dakóta í einn félagsskap, en ekki gekk Stephan í þann söfnuð né neinn annan söfnuð eftir það.

Heimildir sýna, að á þeim árum, sem hér um ræðir, var talsverð ólga í trúmálum meðal Vestur-Íslendinga. Talað var um rétttrúnað, nýju guðfræðina, frjálshyggju og þar fram eftir götunum. Eins og fyrr greinir, hafði slíkrar ólgu orðið vart meðal Íslendinga í Norður Dakóta við myndun Parksafnaðar. Líklegt er, að arftaki þess safnaðar hafi verið félagsskapur sá, sem Stephan G. Stephansson skipulagði og nefndur var „Hið íslenzka menningarfélag".

Meðal annarra stofnenda þessa félags voru þeir bræður, Magnús og Skafti Brynjólfssynir. Stephan var kjörinn ritari menningarfélagsins og honum falið að rita félaginu stofnskrá (sjá meðfylgjandi mynd).

Saga Hins íslenzka menningarfélags verður ekki rakin hér í smáatriðum, enda er hún mjög kunn. Á það má þó minna, að stofnun félagsins olli talsverðum deilum með þeim séra Jóni Bjarnasyni og Stephani G. Stephanssyni. Félagið starfaði í fimm ár, 1888—1893, en þá höfðu sumir af atkvæðamönnum þess flutzt búferlum frá Norður Dakóta. Eins og kunnugt er fluttist Stephan til Alberta vorið 1889.

Í athugasemd dr. Rögnvalds Péturssonar í Bréfum og ritgerðum IV, 152—153, er þess getið, að menningarfélagið hafi haldið 16 fundi á þeim fimm árum, sem það starfaði. Svo vel vill til, að fundarbók menningarfélagsins hefir varðveitzt með fjórtán fundargerðum innfærðum, en tvær síðustu fundargerðirnar hafa verið lagðar inn í bókina á lausum blöðum og er önnur þeirra skrifuð með blýanti. Forspjall félagsins, lög þess og sjö fyrstu fundargerðirnar hefir Stephan G. skrifað í bókina. Eftir það hafa aðrir menn tekið til við að rita, líkast til Ásgeir Líndal og einhverjir aðrir. Allt það, sem Stephan skrifaði í bókina, er birt hér í heilu lagi. Menningarfélagið hlýtur jafnan að koma við sögu, þar sem að því stóðu áhrifamenn, svo sem Stephan G., sem átti það hlutverk framundan, að verða stórskáld, og Björn Pétursson, sem gerðist forgöngumaður um stofnun fyrsta únitarasafnaðarins meðal Íslendinga í Vesturheimi; var sá söfnuður stofnaður í Winnipeg 1. febrúar 1891. Þess má geta hér, að líkur benda til, að eitthvað af fundargerðum menningarfélagsins hafi týnzt. Ef sá grunur er réttur, hafa fundir félagsins orðið fleiri en 16 alls.

Dómar manna um „Hið íslenzka menningarfélag" hafa verið ærið misjafnir. Eins og ráða má af glefsum úr fundargerningum, geðjaðist ýmsum kirkjunnar mönnum lítt að félaginu, og úr þeirra röðum kom sá dómur, að hér væri á ferðinni „dautt vantrúarfélag", sem ekki væri orðum á eyðandi. Löngu síðar tók merkur sagnfræðingur, dr. Þorkell heitinn Jóhannesson, svo til orða, að það „skyldi enginn efast um það, að bak við orð stofnskrárinnar (þ. e. forspjall menningarfélagsins) felst djúp persónuleg reynsla, uppstigning í andlegum skilningi, sem skipar þeim, sem hana ritar og þeim sem hana játa, á allt annað og hærra þroskastig í andlegum efnum en dæmi verða til fundin meðal bænda og búaliðs á þessum tíma, svo að sögur fari af hér heima eða meðal bænda vestra." (Nordæla 1956, 220).

Ekki má sá, sem þetta ritar, segja neitt um álit sitt á menningarfélaginu né um réttmæti þeirra dóma, sem nú hefir verið til vitnað. Slíkt kynni að jafngilda dómsuppkvaðningu um trúmál, og situr víst ekki á ritstjóra Tímaritsins að gera sig sekan um þess háttar goðgá. Segja má, að í þessum efnum verði hver að dæma fyrir sjálfan sig. Hins vegar má nefna það hér, að menningarfélagið stofnaði gott bókasafn, sem bauð Dakóta Íslendingum upp á kjarn-

góða andans næringu, og víst má aldrei gleyma því, að enginn kvað upp jafnótvíræðan dóm yfir menningarfélaginu og Stephan G. sjálfur gerði löngu eftir brottför sína frá Norður Dakóta. Þegar fyrsta bindið af „Andvökum" kom út árið 1909, var svofelld tileinkun prentuð fremst í bindinu:

**Tileinkað Menningarfélags-mönnum í Dakota frá 1889.** Þar á eftir fylgir svo ljóðið „Við munum, þó fámenni í flokk okkar stæði," o. s. frv. Í síðustu vísu þessa kvæðis segir svo í annarri línu: „Frá aldrinum tvítugs eg býð ykkur ljóðin." Þorkell Jóhannesson hefir bent á, að hér láti Stephan í það skína, að skáldferill sinn hafi í rauninni hafizt árið 1889 og þess vegna hafi hann átt tvítugsafmæli sem skáld árið, sem Andvökur tóku að birtast í bókarformi. (Nordæla, 218).

Síðast greind tileinkun réttlætir það fullkomlega, þó að ekki kæmi til annað, að gögn þau, sem varða „Hið íslenzka menningarfélag" séu látin koma fyrir sjónir íslenzkra lesenda.

Um fyrirmynd að menningarfélaginu ritaði Stephan þann 30. marz 1888 á þessa leið: „Svona löguð félög hafa verið stofnuð á nokkrum stöðum hér í landi og hafa reynzt vel, þó enn séu þau ung og fámenn. Próf. F. Adler í New York er upphafsmaður þeirra." (Bréf og ritg. IV, 152). Prófessor Felix Adler var fæddur 1851. Hann var prófessor í hebresku og austurlandabókmenntum við Cornell háskólann í Íþöku í New York; síðar kenndi hann félagsfræði og siðfræði við Columbia háskólann. Talið er, að bók Adlers „Creed and Deed", sem kom út árið 1877, hafi haft áhrif á Stephan G. Um það efni hafa ritað þeir Þorkell Jóhannesson og Óskar Halldórsson (Nordæla, 220 og Studia Islandica 19, 1961, 70—74).

Fundargerðir menningarfélagsins sýna, hvað helzt var tekið til umræðu á fundum félagsins. Þær tala og allskýru máli um andleg viðhorf félagsmanna og þeirra, sem voru þeim andstæðir. Þar er og að finna dálitlar upplýsingar um bókakost, sem félagsmenn lásu og ræddu. Er þess að vænta, að þeim fræðimönnum, sem hafa gerzt rýnendur á ljóð Stephans G., kunni að verða eitthvert lið að þeim ábendingum.

Athyglisvert er, að meðferð eða stafsetning á mannanöfnum er talsvert á reiki í fundargerðunum. Svo virðist, að Stephan hafi ekki verið búinn að gera upp við sig, hvort honum bæri að nota einfaldan eða tvöfaldan samhljóðanda í ættarnafni sínu; ritar hann því ýmist Stephanson eða Stephansson. Eins og kunnugt er, sigraði tvöfaldi samhljóðandinn í þessu tilviki. Misræmi af síðast greindu tagi er ekki leiðrétt hér. Þess má og geta, að Stephan notar orðmyndina „gjaldkyri" í stað gjaldkeri. Skal nú ekki orðlengt frekar í þessum kafla um þann næsta, sem hefir að geyma bæði lög og fundargerðir „Hins íslenzka menningarfélags".

## II

Lagabálkurinn hefst á blaðsíðu 5 í fundarbók, og er hann þannig:

**Lög**

1#

Félagið heitir: Hið íslenzka menningarfélag.

Mannúð. Rannsókn. Frelsi.

Stefna félagsins er, að styðja og útbreiða menning og siðferði, það siðferði og þá trú, sem byggð er á reynslu þekking og vísindum. Í staðinn fyrir kirkjulegan flokkadrátt, vill það efla mannúð og bræðralag; í staðinn fyrir íhugunarlausa játning, skynsamlega og óhindraða rannsókn; í staðinn fyrir blinda trú, sjálfstæða sannfæring, og í staðinn fyrir heimsku og hleypidóma, andlegt frelsi og framför, sem engar hömlur séu lagðar á.

Stofnskrá Menningarfélagsins, rituð af Stephani G. Stephanssyni.

2#

Stefna félagsins er ákveðin í einkunnargrein þess hér að framan (sjá mynd). Félagsmenn geta þeir aðeins orðið, sem henni eru samþykkir, undirskrifa lög þessi, eru fullra 16 ára að aldri og hafa fengið meðmæli inntökunefndarinnar.

3#

Hver félagsmaður greiðir eins dollars árstillag, og aukagjald ef svo verður ákveðið. Þó getur inntökunefndin gefið einstaka undanþágu fyrir gildar ástæður, einkum ef einhver félagsmanna flytur burtu, en æskir þó að standa í sambandi við félagið.

4#

Málfrelsi og atkvæðisrétt hefur hver félagsmaður, en kjörgengi aðeins þeir, sem eru 21 árs að aldri.

5#

Ársfund heldur félagið í júnímánuði ár hvert, samkomu hvern almennan hvíldardag, verði því við komið, aukafund þegar nauðsyn krefur.

6#

Ársfundur kýs stjórn félagsins, yfirlítur reikninga þess og atgerðir ið næstliðna ár og gerir þær ályktanir, sem hagur þess heimtar. Á samkomum félagsins verða haldnar tölur, fyrirlestrar og viðræður, samkvæmar stefnu þeirri, sem það hefur tekið sér. Til aukafunda er kallað, ef málefni liggja fyrir, sem fljótlega þurfa að útkljást.

7#

Lögmætur er sá fundur, sem reglulega er boðaður og sjö félagsmenn mæta, nema sé um fjármál að ræða þarf fullur helmingur félagsmanna að vera viðstaddur. Meiri hluti atkvæða á fundi ræður úrslitum, nema öðruvísi sé ákveðið.

8#

Stjórn félagsins er: forseti, gjaldkeri, ritari og þriggja manna inntökunefnd, kosin til árs, og varamenn þeirra.

9#

Forseti stjórnar fundum og boðar þá, kallar aukafund ef sjö félagsmenn æskja, skipar nefndir þær, sem árs starf er falið.

10#

Gjaldkeri tekur móti tillögum félagsmanna og geymir þau, greiðir féð af hendi eftir skriflegum ávísunum forseta og ritara, beggja; hann leggur greinilegan reikning fyrir ársfund og oftar ef heimtað verður; hann heldur bók yfir tekjur og útgjöld félagsins.

11#

Ritari er fundarskrifari og hefur á hendi öll ritstörf félagsins; hann geymir öll þau skjöl og rit, sem félagið felur honum til gæzlu.

12#

Inntökunefndin gefur aðeins þeim meðmæli sitt sem skriflega æskja inntöku í félagið, sem fullnægja skilyrðum þeim sem fram eru tekin í 2. grein. Samhljóða meðmæli allra nefndarmanna þarf til þess að bera megi upp á félagsfundi ósk þess, sem beiðist upptöku í félagið. Tvo þriðjunga allra atkvæða þarf til þess að gerast félagsmaður.

13#

Félagið getur skipt sér í deildir eftir því sem þörf gerist, er standi samt í nánu sambandi sín á milli undir einni aðalstjórn, með því fyrirkomulagi, sem þeim kemur saman um.

14#

Tillög félagsmanna fyrir líðandi fjárhagsár eiga öll að vera greidd fyrir ársfund.

15#

Breyting á þessum lögum verður einungis gerð á ársfundi.

**Nöfn félagsmanna** (stafsetningu í handriti ritarans er að mestu fylgt hér) Ólaf Olafson, Stephan G. Stephanson, Jonas Hall, Jacob Líndal, S. B. Brynjólfson, Magnús Brynjólfson, Björn Halldórsson, B. Brynjólfsson, Gísli Sæmundson, Arngrímur Jónsson, Magnús Halldórsson, Jón Hjálmarsson, Einar Jónsson, S. Tryggvi Guðmundsson, S. J. Björnson, S. Johnson, H. Thomson, Sigurður Ein-

arsson, B. Blondal, Á. Magnússon, B. Bjarnason, Kristján R. Casper, John Guðmundson, Bjarni Johnson, Tryggvi Palson, Svein Björnson, Bjarni Jóhannsson, Gísli Jóhanneson, Björn Peturson, Jon Jónsson Hrafndal, Sigfus Salomon, Magnús Snowfield, Arni Arnason.

Á bls. 11 í fundarbók er yfirskriftin **Fundargerðir.**

Ekki verður betur séð en að fundargerningar menningarfélagsins árið 1888 hafi allir verið færðir í fundarbók af ritara félagsins, Stephani G. Stephanssyni. Í vissum tilvikum hefir hann þó farið eftir rituðu uppkasti eftir aðra menn, eins og fram kemur í fundargerningum:

I. fundur
haldinn í húsi Stephans G. Stephanssonar 4. febr. 1888.

Skapti Brynjólfsson setti fundinn, hann var því næst kosinn forseti með öllum atkvæðum.

Því næst var rætt um hvert þarflegt væri að hinir frjálslyndari menn meðal Íslendinga hér, sem annaðhvort ekki geta fellt sig við kenningar kirkjunnar eður ímynda sér að játningar og trúarskoðanir séu ekki traustasti grundvöllurinn undir menningu og framförum, stofnuðu félagsskap sín á milli, til trausts og halds gegn ófrelsisanda og fordómum þeirra sem binda vilja huga hvers og eins við kreddur og kirkjusamþykktir, en í stað þess halda uppi frjálsri rannsókn á hverju málefni sem er, allra þeirra manna sem leita sannleikans, allt svo lengi það er gert á skynsamlegan og mannúðlegan hátt.

Allir fundarmenn létu í ljósi að þörf væri á þesskonar félagsskap. Þar næst var í einu hljóði samþykkt að mynda félag undir nafninu „Hið íslenzka menningarfélag“.

Stephani G. Stephansyni var falið af fundinum að semja forspjall, sem tæki fram þessa stefnu félagsins. Þegar hann hafði lokið við frumvarp sitt kaus fundurinn þriggja manna nefnd J. Hall, A. J. Líndal og Magnús Brynjólfsson til að yfirlíta það. Svo var það lagt fyrir fundinn og samþykkt með öllum atkvæðum.

Þá skipaði fundurinn þrjá menn í nefnd: O. Olafson, J. Líndal og S. G. Stephanson til að semja frumvarp til laga fyrir félagið. Sömdu þeir svo nokkrar greinar til bráðabirgða, voru svo þær og forspjallið undirritaðar af sjö mönnum, öllum sem við voru staddir.

Kosnir voru embættismenn fram að næsta ársfundi:

Skapti B. Brynjólfsson formaður, Stephan G. Stephanson skrifari og Olaf Olafson gjaldkeri.

Næsti fundur var ákveðinn til 23. febr. 1888, kl. 10 e. m.

Svo var fundi slitið.

II. fundur
haldinn í húsi B. Brynjólfssonar 23. febr. 1888.

Formaður S. B. Brynjólfson setti fund. Af því að margir voru viðstaddir, sem ekki var kunnugt um félagið, skýrði formaður fundinum frá stofnun þess og stefnu.

Skrifari las upp fyrir fundinum lög félagsins, sem til bráðabirgða voru samin. Voru þau svo undirrituð af öllum fundi því nær 22 mönnum auk stofnendanna.

Samkvæmt ályktan fundarins setti forseti tvær nefndir: Nefnd til að undirbúa fundarsamþykktir: Sv. Björnson, Arngr. Johnson, Einar Jónsson og skrifara. Nefnd til að yfirfara lögin: Ó. Ólafson, S. J. Björnson, J. Líndal, J. Hall, Björn Halldórson.

Fundi var frestað til að gefa nefndunum tíma til að álykta. Eftir stuttan frest kváðust þær hafa lokið við álit sitt og var þá fundur settur aftur.

Nefnd sú er lögin átti að yfirfara skýrði frá að sér hefði verið ómögulegt að lúka því starfi á jafnstuttum tíma og hún hefði nú haft til umráða. Lagði hún svo til að nefnd væri kosin á fundinum til að lúka við lögin. Þessi tillaga var samþykkt. Í nefndina skipaði forseti Ó Ólafson, B. Halldórson, M. Brynjólfson, J. Líndal og skrifara. Ó Ólafson stakk upp á að nefndin aðvari forseta þegar hún hefir lokið við verk sitt, en forseti kveðji þá félagsmenn til fundar, svo lokið verði við lögin á þeim stað og tíma, sem honum virðist hallkvæmast.

Fundarsamþykkta nefndin lagði fram þetta álit:

Við sem kvaddir vorum til að gera uppástungur til fundarsamþykkta ráðum félaginu til að gera eftirfylgjandi ákvarðanir:

1. Að félagsmenn skipti sér í flokka til að lesa og rannsaka ýmsar vísindagreinar, svo sem náttúrusögu, kirkjusögu og hina svo nefndu Comparative Mythology og skáldskap.

2. Hver flokkur fyrir sig taki að sér visst efni, lesi saman og flytji síðan um það fyrirlestur eður ræður á fundum félagsins.

3. Við ráðum fundinum til að kjósa standandi nefnd sem skrifi mönnum í hinum íslenzku nýlendum hér ýmisstaðar, þeim sem líklegir væru að starfa að, mynda samskonar félög í sínu byggðarlagi, sem svo ættu öll að mynda eina heild.

4. Ráðum við fundinum til að kjósa standandi nefnd er sjái um að fá prentað í hinum íslenzku blöðum, það af gerðum félagsins, sem það áliti nauðsynlegt að kæmi fyrir almennings sjónir.

O. Olafson stakk uppá að í staðinn fyrir „kirkjusaga" sé sett trúarbragðasaga. Samþykkt. Sami, að forseti fresti til nákvæmari íhugunar að tilnefna menn í deildirnar, sem álitið gerir ráð fyrir. Samþykkt. Sami, að skrifara sé falið að senda íslenzku blöðunum í Winnipeg stutt yfirlit yfir stofnun fél. og stefnu þess. Samþykkt.

Forseti skýrði frá að hr. Sig. J. Johannesson hefði boðizt til að taka þannig lagaða grein í blað sitt Lögberg, ef sér yrði send hún.

Ályktað var að verja um sinn nokkru af sjóði fél. til bókakaupa. Ályktað var að fela nefnd bókakaupin. Í hana kaus forseti: Ó Ólafson, M. Brynjólfson, B. Blondal.

Uppástunga J. Hall að nefndin skuli sjálfráð að verja svo miklu af sjóði fél. til bókakaupa sem henni þykir þurfa. Samþykkt.

Uppástunga Sveins Bjornsonar að nefndin kaupi bækur aðeins á þremur málum íslenzku, ensku og dönsku. Samþykkt.

Uppástunga J. Líndals að keypt sé skrifbók handa skrifara fél. til að rita í fundargerðir og fleira sem

þurfa kann og sé bókakaupa nefndinni falið að útvega hana. Samþykkt.

Uppástunga J. Líndals að fél. haldi samkomu á Mountain sunnudaginn 11. næst. mán. kl. 2 e. m. Samþykkt.

Fundi slitið.

III. fundur

haldinn á Mountain 2. apríl 1888. Formaður stýrði fundi. Fundargerðirnar frá 4. febr. og 23. febr. lesnar upp og samþykktar.

Skrifari las upp lagafrumvarp nefndarinnar sem það mál hafði til meðferðar. Var það síðan rætt nokkuð. Þar næst var hver einstök grein borin upp sér til samþykkta. 1., 2., 3., 4., 5. og 6. grein samþykktar óbreyttar; 7. grein var samþykkt með viðbótinni „nema sé um fjármál að ræða þarf fullur helmingur félagsmanna að vera viðstaddur.“ 8. grein var samþykkt með viðbótinni „og varamenn þeirra“. 9., 10., 11. og 12. grein voru samþykktar óbreyttar; 13. grein var samþykkt með þeim viðbætir „með því fyrirkomulagi, sem þeim kemur saman um.“ 14. grein var samþykkt óbreytt.

Uppástunga Arngríms Jónssonar að bætt sé við lögin 15. greininni: „Breyting á þessum lögum verður einungis gerð á ársfundi.“ Samþykkt.

Uppástunga að lögin í heild sinni séu samþykkt. Samþykkt.

Ó. Ólafson gaf skýrslu yfir aðgerðir bókakaupa-nefndarinnar. Hún hefði keypt bækur fyrir $13.00 en afslátturinn, hér um bil einn fimmti, stæði enn eftir hjá bóksalanum.

Kosinn var bókavörður Ó. Ólafson. Samþykkt var, að bókaverði sé falið að kaupa þrjár skrifbækur fyrir fél. og borga þær af fél. sjóði. B. Halldórson og Ó. Ólafson voru kosnir til að semja reglur fyrir útlán bóka. Samþykkt var að bókavörður megi lána út bækur áður reglurnar væru samdar.

Varamenn kosnir: B. Halldórson forseti, G. Sæmundson gjaldkeri, Árni Árnason ritari. Í inntökunefnd: B. Halldórson, G. Sæmundson og B. Brynjólfson.

Uppástunga Ó. Ólafson að samkomur séu haldnar aðeins annan hvern sunnudag fyrst um sinn. Samþ. Samþykkt að verja allt að $5.00 til að kaupa fyrir bækur á skandinavísku málunum. Fundi slitið.

IV. fundur

Mountain 15. apríl 1888. Formaður Skapti Brynjólfson stýrði fundi.

Teknir inn í félagið Björn Pétursson og John Hrafndal samkvæmt lögunum. Ólafur Ólafson hélt tölu um **Spiritismus** (andatrú), sem var svo rædd á eftir af Birni Péturssyni, Birni Halldórssyni og ræðumanni. Skrifari las kvæðið „Áraskipti“. Var svo fundi slitið.

V. fundur

Mountain 29. apríl 1888.

Formaður setti fund. Jónas Hall var kosinn skrifari pro. tem.

Uppástunga Ó. Ólafssonar: Ef einhver vill koma hingað með kunningja sinn á fund, má hann það, en ábyrgist þó, að slíkt verði ekki félaginu til baga.

Björn Halldórsson hélt tölu um samband kirkjunnar og félagsins. Ólafur Ólafson talaði um samræmi trúarbragða ýmsra fornþjóða. Fundi slitið.

VI. fundur
Mountain 13. maí.

Formaður stýrði fundi. B. Brynjólfson skrifaði. Í félagið gekk Sigfús Salómon, samkvæmt lögunum. Þvínæst var lesin upp grein sú um félagið, er séra Jón Bjarnason hafði ritað um það í Sameininguna. Var ályktað að reyna að fá inngöngu í Lögberg til að svara. Var B. Brynjólfssyni og skrifara falið að rita svarið, hafa það hógvært og forðast sem mest trúarþras, en halda sér við forspjallið.

VII. fundur
Mountain 10. júní 1888.

Formaður stýrði fundi. Varaskrifari ritaði. Kosinn var bókavörður og féhirðir í stað Ólafs Ólafssonar, sem var að flytja burt.

Lesið var upp handrit af svari skrifarans til séra Jóns Bjarnasonar, sem sendast átti Lögbergi.

Kosnir voru í nefnd Jacob Líndal, Jónas Hall og skrifari til að hugleiða hvort félaginu myndi fært að gefa út blað.

Þá voru félagsmenn þeir, sem til Calgary ætluðu að flytja, kvaddir með kvæði frá skrifara, ræðum frá formanni, Birni Halldórssyni og fl. og þeim falið að slíta ekki félagsskapinn né yfirgefa hugmyndina þó menn dreifðust. Að síðustu var þeim gefin af fundinum bókin **Bible Myths** úr bókasafni félagsins til minningar. Fundi slitið."

Ekki verður séð, að Stephan G. Stephansson hafi fært fleiri fundargerninga inn í fundarbók menningarfélagsins en þá, sem að framan hafa verið teknir upp. Á ársfundi



Skafti Brynjólfsson.

„Hins íslenzka menningarfélags" 23. júní var Ásgeir Líndal kosinn skrifari, og varð hann því eftirmaður Stephans í því embætti. Fundargerð ársfundar Hins íslenzka menningarfélags 23. júní getur þess, að á þeim fundi hafi Jacob Líndal sagt sig úr félaginu. Formaður, Skafti Brynjólfsson, var endurkjörinn í embætti. Á þessum fundi var mjög um það rætt, hvort menningarfélagsmenn skyldu taka þátt í kappræðufundi, sem lútherska kirkjufélagið hafði boðað til að Mountain aðeins einum degi eftir ársfund menningarfélagsins þar. Segir svo orðrétt í fundarbók:

„Spursmál það, sem ræða átti um á kappræðufundinum var: „Er kirkjan með eða móti frjálsri rannsókn?" — Varð sú niðurstaða, að bezt mundi að sækja fundinn, en þó skyldu menn sjálfráðir, meðan ekki var á félagið skorað, en færi svo voru kosnir til að mæta: Skafti B. Brynjólfsson, Björn Halldórsson, A. Johnson, A. Magnússon."

Þegar hér var komið sögu, má greina, að heldur hefir andað köldu frá sumum í garð menningarfélagsins. Eftirfarandi kafli úr síðast greindum fundargerningi sýnir þetta nokkuð, en þar segir:

„Björn Halldórsson gat þess, að framvegis mundi félaginu verða fyrirboðið skólahúsið á Mountain, sem það þangað til hafði oftast haldið fundi sína í, af skólaráðinu þar. Áður hafði félagið borgað 26 cents fyrir hvern fund, sem það hélt í skólahúsinu, 5 centum meira en önnur félög, sem fengu húsið. Þessu réði meiri hluti skólaráðsins."

Á fundi, sem haldinn var að Lundi, heimili Björns Halldórssonar, þann 22. júlí 1888, var mjög rætt um það, hvort ekki myndi gerlegt fyrir menningarfélagið að hefja útgáfu mánaðarrits. Næsti fundargerningur frá 18. ágúst sama ár sýnir, að útgáfumálið var þá enn á döfinni. Lagði Björn Halldórsson til, að athugaðir yrðu möguleikar á því að fá ritstjóra frá Íslandi til að annast útgáfu væntanlegs rits. Nefndi hann þrjá menn í því sambandi, þá séra Matthías Jochumsson, Jón Ólafsson og Valdimar Ásmundsson. Í ljós kom, að hófanna hafði þegar verið leitað við Valdimar Ásmundsson, en svar hafði ekki borizt frá honum.

Næsti fundur menningarfélagsins var haldinn 12. jan. 1889, og segir þar orðrétt:

„Björn Pétursson hélt fyrirlestur um kraftaverk. Arngrímur Jónsson lagði til að bjóða kirkjufélaginu upp á fund m. fl., en ef kirkjufélagsmenn gætu ekki komið, þá yrði þeim gefinn kostur á að tiltaka tíma. Sami stakk upp á, að nefnd væri kosin. Forseti útnefndi þessa: M. Brynjólfsson, Stephan G. Stephanson, Arngrím Jónsson, Björn Halldórsson, Björn Pétursson."

Hin nýskipaða nefnd lagði til, að menningarfélagið legði aðaláherzlu á mánaðarlegar samkomur, þar sem fyrirlestur yrði haldinn um eitthvert það efni, sem gagnlegt mætti teljast fyrir félagsmenn. Ekki hefir verið mikið um viðræður milli menningarfélagsins og lútherska kirkjufélagsins. Er vikið að þessu í fyrr greindum fundargerningi:

„Í tilefni af áskorun menningarfélagsins til prestanna á kirkjuþinginu næstl. sumar skilst nefndinni svo, að sú áskorun standi enn, . . . því ræður nefndin til að endurtaka hana og á þessum fundi kjósa nefnd manna, sem hafi það mál til meðferðar og hafi þeim starfa lokið fyrir næsta félagsfund. Í nefnd þessa voru kosnir: Stephan G. Stephanson, J. Hall, Ásgeir Líndal."

Á fundi 19. maí 1889 var mjög rætt um bókakaup fyrir félagið. Meðal þeirra bóka, sem afla skyldi, eru nefndar „Kingdoms of Nature", „Childhood of Man" og „Childhood of Religion". Bókarheiti eru tekin stafrétt úr fundargerningi, þó að nokkur vafi leiki á, að þar sé fullkomlega rétt með farið.

Ársfundur menningarfélagsins vorið 1889 var haldinn 14. júní í húsi S. B. Brynjólfssonar. Engar nýjungar mun hafa borið þar á góma né heldur á næsta fundi, sem haldinn var 24. nóv., einnig í húsi B. Brynjólfssonar. Fundargerð þess fundar varð sú hin síðasta, sem færð var inn í gjörðarbók menningarfélagsins. Á lausum blöðum hafa þó varðveitzt

til fulltrúa deilda, sem lengst eru í burtu frá Winnipeg og sækja þing félagsins. Stjórnarnefnd Strandar er mjög áfram um, að víðtækari bréfaskipti komist á milli þeirra og stjórnarnefndar aðalfélagsins.

**Þriðji fundur, 22. febrúar, kl. 9.30 f. h.**

Fundargjörð var lesin og samþykkt. Forseti las skeyti frá Sigurði Sigurgeirssyni og Þjóðræknisfélaginu í Reykjavík. Að því búnu var aftur horfið að skýrslum deilda.

**Frón,** Winnipeg (flutningsmaður var Páll Hallson): Miðsvetrarmót Fróns var haldið 15. febrúar 1965 og var aðalræðumaður dr. Sæmundur Kjartansson; 23. marz var almennur fundur, þar sem forseti Þjóðræknisfélagsins, séra P. M. Pétursson flutti erindi og einn af formönnum Ward Air flugfélagsins útskýrði farartæki og störf félagsins (Þjóðræknisfélagið hafði leigt eina af flugvélum þess til Íslandsferðar) og sýndi ágætar litmyndir af flugferðum til ýmissa landa. Þann 19. maí stóð Frón að kveðjusamsæti á Empire hótelinu fyrir hópinn, sem var á förum til Íslands. Þann 18. nóvember stóð útbreiðslunefnd Fróns fyrir opinberum fundi, þar sem Skúli Jóhannsson flutti ávarp og Mrs. Hrund Skúlason rakti minningar úr Íslandsferðinni; Baldur Sigurdson las upp kvæði og Heimir Thorgrimsson flutti bráðskemmtilegt erindi. Fimm stjórnarnefndarfundir voru haldnir á árinu. Bókasafnið er opið vikulega, og sér frú Ólína Johnson um útlán á bókum. Frón varði $100.00 til bókakaupa á árinu.

**Gimli,** Gimli (skýrsla flutt af skrifara, Mrs. Ragna Baldwinson): Meðlimatala er 76. Í sjóði eru $498.13. Deildin hefir starfað vel á árinu, haldið samkomur og fundi, sem hafa verið vel sóttir.

**Brúin, Selkirk** (skýrslan lesin af Leifa Skagfjord): Fimm nýir meðlimir gengu í deildina á árinu; félagið telur nú 24 meðlimi. Flutningsmaður minntist með söknuði kærrar félagssystur, Ástu Eirikson. Þrír starfsfundir voru haldnir á árinu og tombóla haldin í marz, er var vel sótt og talsverður ágóði. Deildin sendi L.-H. $25 að gjöf. Í ráði er að koma bókasafni deildarinnar í betra horf, þar sem húsakynni eru ekki sem bezt.

**Ísland, Morden** (skýrsla lesin af frú Lovísu Gíslason): Tveir fundir voru haldnir á árinu, sá fyrri á sumardaginn fyrsta; sá seinni í nóvembermánuði. Þá skemmtu Dr. og Mrs. R. Beck og Haraldur Bessason, próf., en forseti, séra P. M. Pétursson, sem gat ekki komið, sendi heillaóskir. Dr. Jón Guðmundsson og kona hans og Robert Webb, öll frá Morden, stunduðu námskeið í íslenzku hjá Haraldi Bessasyni í tíu vikur s. l. haust.

**Lundar,** Lundar, Man.: Deildin hélt þrjá skemmtifundi. Stjórnarnefnd hafði tvo fundi og aukanefndir héldu nokkra fundi. Félagar eru 37. Tveir félagar féllu frá á árinu: Mrs. Sigríður Hjálmarsson og Mr. Ásgeir Jörundsson. Tvær samkomur voru haldnar; útiskemmtun við minnisvarða landnemanna, þar sem Haraldur Bessason var aðalræðumaður, en Mrs. W. Kristjanson og Njáll Bardal aðstoðuðu við sameiginlegan söng. — Auk þeirra komu frá Winnipeg G. L. Johannson ræðismaður og kona hans og Páll Hallson, sem afhenti deildinni fána Þjóðræknisfélagsins. — Hin samkoman var spilasamkoma, og seldir happdrættismiðar, og tókst sú samkoma mjög vel. Deildin keypti bókasafn, um 500 bækur, og bókaskáp með, af Mr. G. P. Magnússon. Einnig keypti deildin bók W. Kristjanson, "The Icelandic People in Manitoba", og Mrs. Ólöf Hallson gaf deildinni nokkrar bækur. Mrs. Ingibjörg Rafnkelson og Mrs. J. S. Sigurdson gáfu deildinni peninga, að upphæð $25.00. Deildin gaf $10.00 til Skógræktarfélags Íslands og $40.00 í Senior Citizens Fund.

**Esjan,** Arborg (skýrsla lesin af Miss K. Skulason): Meðlimatala er 111. Góð aðsókn hefir verið að bókasafninu og nokkrar nýjar bækur keyptar. Fylkisbókasafnið hefir nú veitt leyfi til þess að bókasafn byggðarinnar, "Regional Library", veiti móttöku Esju-safni, og verður það starfrækt sem sérstök deild. Ein skemmtisamkoma var haldin á sumardaginn fyrsta, 22. apríl, til þess að fagna sumri og minnast aldarfjórðungs afmælis deildarinnar. Forseti deildarinnar, Gunnar Sæmundsson, flutti ræðu og rakti í aðaldráttum sögu lestrarfélagsins „Fróðleikshvöt", stofnsett 1908, og deildarinnar Esju, sem voru sameinuð. Séra Kristján Róbertsson var aðalræðumaður og skemmti hann einnig með söng. Dr. R. Beck flutti frumort kvæði; séra P. M. Pétursson flutti kveðjur og Frank Olson flutti kveðjur frá deildinni Gimli; Mrs. Lilja Martin, Jóhannes Pálsson, Sigmar Martin og Stefán Guttormsson skemmtu með hljóðfæraslætti og söng. Eftirtaldir meðlimir hafa látizt á árinu: Þórarinn Gíslason, Björgvin Hólm, Jón Baldvinsson, Jón Eirikson og Eggert Guðmundsson. Tekjur (með innstæðu frá fyrra ári) $707.45; útgjöld $242.12; í sjóði $464.33. Deildin lagði $10.00 til Skógræktarfélags Íslands.

**Báran,** Mountain, N. D.: Deildin hefir haldið tvo fundi á árinu og eina samkomu. S. A. Björnson, forseti, setti samkomuna og Dr. og Mrs. Beck komu með góðan gest, Ragnar Georgsson, skóla-

fulltrúa frá Reykjavík. Sýndi hann fagrar litskuggamyndir frá Íslandi og útskýrði þær. Svo var söngur á íslenzku og ensku. Miss Kathleen Shepard söng einsöng og undir spilaði amma hennar, Mrs. S. A. Björnson; Curtis Olafson söng einning einsöng og móðir hans, Mrs. Valdi Olafson var við hljóðfærið. Rausnarlegar veitingar voru bornar fram af konum deildarinnar.

**Norðurljós**, Edmonton, Alta. (skýrslan lesin af forseta, Walter Arason): Ræðumaður útskýrði það, að fjallkona þeirra þar vestra, Mrs. Della Roland, hefði verið kosin fulltrúi á þing, en hefði ekki átt heimangengt. Deildin hefst mikið að og stendur í miklum blóma. Í febrúar er haldið þorrablót; í marz og október er dans; í marz er fjallkonan kosin og efnt er árlega til útiskemmtunar á fullveldisdegi Íslands, 17. júní; í september selur deildin "Grey Cup Pool tickets", sem er mjög arðsamt, og hefir deildin lagt allstóra fjárupphæð til elliheimilanna Höfn í Vancouver og Betel á Gimli. Í desemer er jólaskemmtun, þar sem öll börn fá smágjafir (Christmas stockings) og fjallkonan útbýtir gjöfum til ævifélaga. Milli þessara hátíða efnir fólk til kaffidrykkju. Þrír meðlimir „Norðurljóss“ eru í aðalnefnd "Skandinavian Centre", sem er merkilegt og fallegt samkomuhús hinna fimm skandinavísku þjóðabrota, en það var opnað 21. júní 1964. Scandinavian Centre gefur út átta blaðsíðna rit í hverjum mánuði, og fá allir meðlimir ritið ókeypis. Deildin er að undirbúa íslenzkukennslu, sem byrjað mun á í haust. Þá er í ráði að kaupa gamla heimilið, þar sem Stephan G. Stephansson bjó, og gera það að nokkurs konar minjasafni, en þetta þarf mikla umhugsun og undirbúning og er ekki langt komið enn, enda myndi deildin þurfa mikla utanaðkomandi hjálp til þess að hrinda því í framkvæmd. Fulltrúar á þingi fögnuðu þessari góðu skýrslu með lófataki.

G. L. Johannson kom þessu næst fram með segulband, sem Sigurður Sigurgeirsson hafði sent frá Íslandi, og hafði fólk ánægju af að hlusta á kveðjur, söng og annál ársins fluttan af Vilhjálmi Þ. Gíslasyni útvarpsstjóra.

Frú Marja Björnson flutti fréttir af Icelandic Canadian Club í Toronto. — Séra P. M. Pétursson gat þess, að komið geti til mála, að klúbburinn gangi í Þjóðræknisfélagið sem deild eða sambandsdeild.

**Fjórði fundur, kl. 2 e. h.**

Fundargjörð lesin og samþykkt. Forseti bað alla, sem í nefndir höfðu verið skipaðir, að taka nú til starfa. En forseti skemmti þeim sem eftir sátu með því að rifja upp einn þátt af menningarstarfi Þjóðræknisfélagsins, en það var um heimsóknir manna og kvenna, mestmegnis frá Íslandi, sem hafa verið boðsgestir félagsins á samkomum eða þingum og sem oft hafa ferðazt víða um þessa álfu undir umsjón félagsins. Er þessa starfs getið í sögubroti um félagið, sem stjórnarnefndin er að undirbúa.

**Sýning hjá T. Eaton's félaginu.** G. L. Johannson skýrði frá því, að hann hefði verið kvaddur á fund skandinavískra ræðismanna til þess að tala við danska ræðismanninn frá Toronto um fyrirhugaða sýningu í októbermánuði á skandinavískum munum.

**Samvinnumál við Ísland** (skýrslan var lesin af dr. Beck, í fimm liðum): 1. liður: Þingið þakkar komu Péturs Thorsteinssonar sendiherra og frúar hans og herra Brynjólfs Jóhannessonar og mikið og gott framlag þeirra til samkomuhalda þingsins; 2. liður lýsir ánægju vegna hópferðarinnar til Íslands s. l. sumar og þakkar öllum þeim, sem hlut áttu að máli, sérstaklega öllum þeim á Íslandi, sem áttu hlutdeild í þeim frábæru viðtökum, sem hópurinn að vestan átti þar að fagna. 3. liður: Þingið fagnar þeirri frétt, að „Ströndin“ stofnar enn á ný til hópferðar til Íslands á komanda sumri. 4. liður: Þingið lýsir ánægju sinni yfir viðleitni stjórnarnefndarinnar um að eiga samvinnu við Íslendinga heima um þátttöku þeirra í heimssýningunni í Montreal 1967. 5. liður: Þingið hvetur fólk vort til þess að kaupa **Vestur-íslenzkar æviskrár** og styðja að framhaldandi útgáfu ritsins með öðrum hætti. Allir liðir voru samþykktir og svo nefndarálitið í heild.

**Fimmti fundur, miðvikudag kl. 9.30 f.h.**

Fundargjörð var lesin og samþykkt. Forseti las það sem eftir var af nafnalista boðsgesta Þjóðræknisfélagsins frá 1919 til 1965, og gat þess, að Karlakór Reykjavíkur hefði komið tvisvar, 1946 og 1960.

G. L. Johannson bað þingið að afsaka sig frá fundi þar sem hann þyrfti að slást í för með sendiherra Pétri Thorsteinsson, sem hafði verið sýndur sá heiður, að vera boðinn á fund með þingi Mani tóbafylkis og til hádegisverðar hjá H. H. Saunderson forseta Manitóbaháskóla.

Forseti sýndi þingheimi fagran silfurhníf, sem Þjóðræknisfélaginu hafði borizt frá Guðmundi Guðjónssyni, en hann hafði haldið veglegt samsæti fyrir hluta af vestur-íslenzka hópnum, sem farið hafði til Íslands, og leysti alla út með gjöfum.

**Skýrsla fjármálanefndar** (skýrslan lesin af Páli Hallson, í tveim liðum): 1. lið-

ur: Nefndin leggur til, að skýrslur féhirðis og fjármálaritara séu samþykktar. 2. liður: Nefndin er á þeirri skoðun, að væntanlegar tekjur á komandi árum verði ekki nægilegar og leggur til, að væntanlegri stjórnarnefnd sé falið að leggja fram ákveðnar tillögur um það mál fyrir næsta þing. Báðir liðir voru samþykktir.

**Fræðslu- og útbreiðslumál** (skýrslan lesin af Dr. V. J. Eylands): 1. liður: Að þakka þeim, sem hafa starfað að kynningu og útbreiðslu íslenzkra menningarmála í Vesturheimi. 2. liður: Að styðja vikublaðið Lögberg-Heimskringlu. 3. liður. Að kynna sér ritið **Iceland Review**. 4. liður: Að stjórnarnefnd athugi möguleika á því að hefja á ný leiðbeiningar í íslenzku í vikublaðinu L.-H. 5. liður: Að athygli sé vakin á því, að mikið af gullaldarbókmenntum Íslendinga eru nú fáanlegar í enskri þýðingu og að æskulýður vor sé hvattur til að notfæra sér slíkt lesefni, þar sem til þess næst. 6. liður: Að stuðla að því eftir megni, að börn og unglingar komi fram á samkomum með framsögn eða söng á máli feðra sinna, og deildir hvattar til að gera sitt ítrasta í þessu máli. Allir liðir voru samþykktir og nefndarálitið í heild.

**Sjötti fundur, miðvikudag kl. 2 e. h.**

Fundargjörð lesin og samþykkt. Því næst fóru fram kosningar og var stjórnarnefndin öll endurkosin. Stjórnarnefnd er því þannig skipuð: Forseti: Séra P. M. Pétursson; varaforseti: Próf. H. Bessason; ritari: Hólmfríður Danielson: vararitari: Páll Hallson; féhirðir: G. L. Johannson; varaféhirðir: J. T. Beck; fjármálaritari: Guðmann Levy; varafjármálaritari: Kristín Johnson; skjalavörður: J. F. Kristjánsson; umboðsmaður á Vesturströndinni: Snorri Gunnarsson; endurskoðendur: Davíð Björnsson og Gunnar Baldwinson.

**Skógræktarmál** (skýrsla flutt af Marju Björnson, formanni milliþinganefndar): Samtals hafði hún sent $45.00 til Íslands, og las hún þakkarbréf frá Hákoni Bjarnason. Hafði hún valið Dr. R. Beck með sér í nefndina og skrifaði hann góða grein í L.-H. um skógræktarmálið. Hún hvatti allar deildir og meðlimi þeirra að styðja þetta mál. Skýrslan var viðtekin með þakklæti. Frú Marja var endurkosin formaður milliþinganefndar og valdi hún Dr. Beck til þess að starfa með sér. Hann verður á Íslandi á komandi sumri og mun gera sitt ítrasta til að hlúa að starfinu. Frú Marja las upp alllanga skrá yfir þá, sem nú á þinginu lögðu fé í skógræktarsjóðinn.

**Skýrsla útgáfumálanefndar** (lesin af Kristínu Skúlason, í fimm liðum): 1. liður: Að þakka ritstjórum Tímaritsins, Gísla Jónssyni og Haraldi Bessasyni. 2. liður: Að útgáfu Tímaritsins verði vísað til stjórnarnefndar. 3. liður: Að bæklingur sá, sem stjórnarnefndin hefir í undirbúningi, sé prentaður. 4. liður: Lagt er til, að allir styðji vikublaðið L.-H. eftir megni og útvegi nýja kaupendur og sendi fréttagreinar. Ritstjórinn, frú Ingibjörg Jónsson, tók í sama streng og bað um stuðning allra við útgáfu blaðsins. 5. liður: Að félagsmenn kaupi Vestur-íslenzkar æviskrár og bók W. Kristjanson, "The Icelandic People in Manitoba". — (Þjóðræknisfélagið hefir þegar keypt nokkuð stórt upplag af þeirri bók og er hún til sölu hjá stjórnarnefndinni). — Allir liðir voru samþykktir.

**Minnisvarði V. Stefánssonar**. G. L. Johannson flutti skýrslu, sem sýndi afarmikið og gott starf í því máli. Hefir hann haft stöðugt samband við alla aðilja, bæði í stjórninni og við "Historic Sites Board" og "National Monuments Board". Er nú búið að samþykkja að setja upp eirskjöld á Gimli til minningar um Vilhjálm. Nefndin á Árnesi er að rýma til á svæði, þar sem minnismerki "Historic Sites Board" verður sett upp. Þjóðræknisfélagið lagði Árnesnefndinni til $150.00 til þessa starfs. Grettir ræðismaður og nefndarmenn hans hafa fengið myndhöggvara í New York til þess að gera afsteypu af brjóstmynd, sem hann gerði fyrir löngu af Vilhjálmi Stefánssyni, og er nú afsteypa þessi komin til Winnipeg. G. L. Johannson hefir haft samband við Meitland Steinkopf og Joseph Martin og farið þess á leit, að styttunum verði komið fyrir í hinu fyrirhugaða "Manitoba Centennial Centre".

Grettir gat þess, að ef Þjóðræknisfélagið á að starfa að hinum ýmsu áhugamálum, verði stjórnarnefndin að hafa eitthvert fé milli handa. Síðan þakkaði Grettir öllum þeim, sem hafa lagt fé í styrktarsjóð félagsins, og sér í lagi þakkaði hann frú Lovisu Gíslason, sem hefir af miklum höfðingsskap lagt $100.00 á ári í nokkur ár. Þingheimur þakkaði henni af heilum hug.

Einnig þakkaði Grettir öllum þeim, sem hafa unnið að minnisvarðamálinu með honum, sérstaklega þeim Dr. George Johnson og Aleck Thorarinson. Dr. Beck lagði til, að G. L. Johannson og nefnd hans yrði innilega þakkað fyrir ágæta frammistöðu í þessu máli og fólk eindregið hvatt til að styðja þetta mál og öll áhugamál Þjóðræknisfélagsins. Forseti og allur þingheimur reis á fætur í þakklætisskyni. Dr. Beck vakti máls á því, að Gísli Jónsson hefði nýlega átt níræðisafmæli. Þingið óskaði honum allra heilla og vottaði honum þakklæti fyrir

langt og gott starf við ritstjórn Tímaritsins. — G. L. Johannson minntist á heimsókn Péturs Thorsteinssonar sendiherra á fund fylkisþingsins og hversu vel honum hefði verið fagnað þar. „Ég veit ekki til,“ sagði hann, „að annar sendiherra hafi fengið jafnglæsilegar viðtökur.“ — Forseti gat þess, að frú Kristín Johnson hefði gefið fjárupphæð í styrktarsjóð Þjóðræknisfélagsins í minningu um mann sinn, Bergþór Emil Johnson, og reis þingheimur úr sætum í virðingu við minningu hans. — Eins og áður var getið, sendi Walter Johannson $25.00 í sjóðinn, sem hann nefndi sektarsjóð, sökum þess að hann gat ekki sótt þing í þetta sinn. — G. L. Johannson lagði til að Dr. Beck og frú Margréti yrði þakkað, þar sem Dr. Beck lætur ritlaun sín fyrir greinar í Tímaritið ganga í styrktarsjóð félagsins. Allir voru á sama máli í því efni.

**Samkomur þingsins.**

Þjóðræknismessa var haldin í Fyrstu lútersku kirkju á sunnudagskveldið 20. febrúar. Dr. V. J. Eylands stjórnaði guðsþjónustu, séra P. M. Pétursson, forseti Þjóðræknisfélagsins, tók þátt í athöfninni og Dr. R. Beck flutti erindi. Konur safnaðarins báru fram veitingar. Þessi athöfn fór fram fyrir fullu húsi, og sama má segja um hinar samkomur þingsins, húsfyllir var hvert kvöld. Á öllum samkomunum var góður söngur og hljóðfærasláttur, en aðalaðdráttaraflið við Fróns-samkomuna á mánudagskveldið var vitaskuld hinn kunni íslenzki leikari, Brynjólfur Jóhannesson, og varð enginn fyrir vonbrigðum með hann. Ungfrú Snjólaug Sigurdson lék undir af mikilli list, þá er hann söng hina fjörugu gamansöngva. Helzta atriðið á lokasamkomu þingsins var hin gerhugsaða ræða Péturs Thorsteinssonar sendiherra, og þar skemmti Brynjólfur í annað sinn vel og lengi með söng, upplestri og leikþáttum. Ræðumaður á samkomu Icelandic Canadian Club var Eric Stefansson sambandsþingmaður. Sendiherrann var gerður að heiðursfélaga Þjóðræknisfélagsins, en Brynjólfur að ævifélaga. Síðan voru heiðursgestirnir leystir út með gjöfum.

Mörg skemmtileg heimboð voru haldin í sambandi við þingið. Síðdegis á sunnudag efndu ræðismannshjónin, Mr. og Mrs. G. L. Johannson, í samráði við stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins til veglegrar móttöku fyrir heiðursgesti þingsins, og voru þar samankomnir um hundrað manns. Forseti, séra P. M. Pétursson, bauð yfir þrjátíu gestum til kvöldverðar í efri salnum á “The Paddock” á mánudagskvöldið. Á þriðjudaginn var virðuleg móttaka frá kl. 5—7 e. h. hjá fylkisstjóra Manitobafylkis, Hon. W. S. Bowles og frú hans að Government House. Voru boðnir þangað allir þingfulltrúar og gestir og mikill fjöldi annarra Íslendinga, svo að yfir 250 manns voru mættir þar. Um hádegið stóð Icelandic Canadian Club fyrir hádegisverði. Mr. og Mrs. Jakob Kristjánsson héldu boð þar sem íslenzki leikarinn, Brynjólfur, hafði tækifæri til þess að hitta og kynnast helztu íslenzkum leikurum hér, sem lengst hafa verið við leiklist kenndir hér vestra. Var þar mjög fjörugt og glatt á hjalla.

Út um byggðirnar, þar sem Brynjólfur ferðaðist og skemmti, heiðruðu deildir Þjóðræknisfélagsins og önnur íslenzk félög hann á ýmsan hátt.

Svo lauk þessu ársþingi Þjóðræknisfélagsins, sem var ánægjulegt í alla staði og árangursríkt á margan hátt. Starfsfólk virðist hafa sýnt mikinn dugnað og áhuga í öllum málum á þingi og liðnu ári; það spáir góðu um áframhaldandi velgengni félagsins og allra deilda þess.

Stjórnarnefndin þakkar öllum fulltrúum, þinggestum, nefndum og einstaklingum fyrir áhugann, góðhuginn og dyggilegt starf að þjóðræknismálunum.

Hittumst heil á næsta þingi!

Það var með miklum söknuði og sorg að við fréttum hið snögglega lát frú Lovisu Gíslason, skömmu eftir þingið, og syrgjum við fráfall þessarar góðu konu, sem vann svo dyggilega að þjóðræknismálunum.

**Hólmfríður Danielson**, ritari.

# Viðauki

Til þess að ekki verði eyða aftast í þessum árgangi Tímaritsins, skal nú vikið að málefni, sem er á döfinni og varðar Kanadamenn af íslenzkri ætt og þátttöku þeirra í aldarafmæli Kanada á þessu ári.

Ekki er annað sýnna en að hver sá, sem vettlingi getur valdið hér í landi, hafi strengt þess heit að minnast aldarafmælisins að nokkru. Margir hafa tekið fram smíðatól og vinna nú að gerð ýmiss konar kjörgripa, sem eru að einhverju leyti táknrænir í sagnfræðilegum skilningi og líklegir til þess að verða jafnir að endingu gulltöflum þeim, sem Völuspá segir, að verið hafi endur fyrir löngu á landareign guðanna. Aðrir hafa heitið því að geta sér orðstír, sem aldrei deyi. Ber þar hæst fjallgöngumenn, sem ætla nú ekki að slá því lengur á frest að klífa þá tinda á kanadískum fjöllum, sem hingað til hafa verið friðlönd arna og þeirra fugla, sem sækja í hásal vinda.

Kanadísk blöð herma, að unglingar séu þess albúnir að stæla krafta sína á öllum þeim vatna- og fljótaleiðum, sem kortlagðar hafa verið innan kanadískra landamæra. Þá hafa hérlendir rithöfundar og tónskáld látið til sín taka. Ekki er og annað sýnna en að sögu landsins verði gerð fyllri skil á þessu eina afmælisári en hinum níutíu og níu árum, sem á undan eru gengin.

Íslendingar eru að tiltölu svo fjölmennir í Kanada, að vel þótti á fara, að þeir legðu sinn skerf til hátíðarhaldsins. Tóku þeir því það ráð að leggja eitthvað það af mörkum, sem vakið gæti athygli á fyrstu ferðum íslenzkra manna vestur að því landsvæði, sem nú nefnist Kanada, enda þó þeir atburðir falli ekki inn í sögu síðustu hundrað ára.

* * *

Eftir allmiklar umræður manna á milli var ákveðið að láta gera eirskjöld einn mikinn með upphleyptri mynd af þeim síðum Flateyjarbókar, sem lýsa vesturferðum Bjarna Herjólfssonar og Leifs Eiríkssonar. Fylgja þeirri mynd þýðingar á bæði ensku og frönsku auk stuttrar greinargerðar um efni og inntak.

Skjöldur sá, sem hér um ræðir, verður afhentur Sambandsstjórninni í Ottawa að gjöf, og hefir forsætisráðherra, Lester B. Pearson, lýst yfir, að hann muni veita gjöfinni viðtöku og fá henni samastað á þinghæðinni í Ottawa. Hann hefir og samþykkt allt það efni og orðalag, sem á skjöldinn er greypt, og felst í þeirri samþykkt opinber viðurkenning Kanadastjórnar á sagnfræðiheimild Flateyjarbókar um fund þessa meginlands.

* * *

Skjöldur þeirra Bjarna og Leifs er mikill að fyrirferð, um sjö fet á breidd og allt að fimm fet á hæð. Samvinna við undirbúning þessa fyrirtækis hefir verið góð. Öll Íslendingafélög í Kanada hétu því á síðast liðnu ári að styðja það eftir mætti, en þá hafði þegar verið sett á laggirnar sérstök framkvæmdanefnd. sem síðan hefir látið talsvert til sín taka. Forsæti í framkvæmda-

nefnd hefir skipað dr. P. H. T. Thorlakson yfirlæknir.

* * *

Nú er málum svo komið, að sjálfur eirskjöldurinn er næstum fullbúinn. Hins vegar skortir mjög á, að nægilegt fé hafi safnazt til þess að standa straum af öllum kostnaði. Brugðust þó margir skjótt og vel við beiðni framkvæmdanefndar, en betur má, ef duga skal. Nefndin væntir þess, að framlög berist henni í hendur sem greiðlegast næstu vikurnar. Ýmsum kann að leika forvitni á því, hvers vegna texti Flateyjarbókar, eða sá þáttur hennar, sem nú er tíðast nefndur Grænlendingasaga, varð fyrir valinu, þegar því var til lykta ráðið, hvað setja skyldi á skjöld hinna fornu kappa. Nefndarmenn tóku fyrst og fremst til greina seinni tíma rannsóknir, sem benda til þess, að Grænlendingasaga sé betri heimild um landafundi heldur en Eiríks saga rauða.

Þannig telst það ekki lengur góð latína að ræða um Leif Eiríksson án þess að Bjarna Herjólfsssonar sé að einhverju leyti getið. Sú var þó tíðin, að beztu menn létu jafnan í það skína, að frásagnir af Bjarna Herjólfssyni væru í mesta máta tortryggilegar og töldu sumir líklegt, að hann væri hugarfóstur fornra rithöfunda. Grænlendingasaga getur þó Bjarna, og sú saga er líklega frá lokum tólftu aldar, eða miklu eldri en menn höfðu löngum haldið. Það má og til sanns vegar færa, að Vínlandskort það, sem dregið var fram í dagsljósið fyrir rúmu ári, styðji frásögn Grænlendingasögu um hinar fyrstu landkönnunarferðir, en heimildargildi kortsins hefir enn ekki verið hrakið með rökum.

Síðustu þrjú árin hefir afar mikið verið ritað um Vínlandsferðirnar. Snemma árs 1963 kom út hin merka bók prófessors Gwyn Jones „The Norse Atlantic Saga", sem er hvort tveggja í senn skemmtileg og fræðandi. Undir árslok 1965 kom út heldur slæm bók um hinar fornu vesturferðir eftir Farley Mowatt. Þótt gallar þeirrar bókar séu bæði margir og ósmáir, hefir henni verið mikill gaumur gefinn, enda er ímyndunarafl Mottaws með ólíkindum.

Þess er að vænta, að þeir, sem á komandi árum heimsækja þinghæðina í hinni kanadísku höfuðborg, Ottawa, megi komast að raun um, að þeir félagar, Bjarni og Leifur, séu ekki uppfinningar núlifandi rithöfunda, heldur eigi þeir sér traustan grundvöll í söguritum fornaldar.

**H. B.**

# Auglýsingaskrá Tímaritsins

(Index to Advertisers)

Varaféhirðir
Óla Magnússon

Fjármálaritari
Gestur Jóhannson

Aðrir meðlimir
G. K. Halldórson
Bill Indriðason
Beggi Pálsson
Jafeta Skagfjörð
Sigurbjörg Björnson
Ola Magnusson
Margrét Goodman
Kristinn Goodman
Friðrik Nordal
Sigrún Nordal
Einar Thorvaldson
Vigdís Johnson
Rúna Magnússon
Christie Johnson
Dr. Oli Johnson
Johanna Goodman
Pete Thorsteinson
Árni Stefánson
Kristín Stefánson
Emma Bessason

**„Frón", Winnipeg**

Forseti
Jakob F. Kristjánsson

Varaforseti
Próf. Haraldur Bessason

Skrifari
Páll Hallson

Varaskrifari
Skúli Jóhannson

Gjaldkeri
Jochum Ásgeirsson

Fjármálaritari
Gunar Baldvinsson

Varafjármálaritari
Valdimar Lárusson

Bókavörður
Mrs. Ólína Johnson

**Meðlimir**

Ævifélagar:
Grettir L. Johannson
Séra Philip M. Pétursson
Walter Johannson
Grettir Eggertson
Guðmann Levy
Anna M. Levy
Mrs. B. E. Johnson
Eric H. Ísfeld

**Æfifélagar**

Ársfélagar:
Mr. Thorsteinn Isleifsson
Mr. and Mrs. Egill Jonasson
Mr. Örn Thorsteinson
Mr. Frímann Skaftason
Mr. Agnar Magnuson
Mrs. R. Gíslason
Mrs. Hólmfríður Pétursson
Miss Margrét Petursson
Miss Bertha Jones
Mrs. Olina Johnson
Mrs. Shirley Block
Mr. Arni G. Eggertson, Q.C.
Miss S. S. Johnson
Mrs. Laufey Helgason
Mr. Fred Fridfinnson
Mr. Wilhelm Kristjanson
Mr. K. W. Johannson
Mr. Sveinn Sveinsson
Mrs. Thorunn Valgardson
Mr. and Mrs. Páll Hallson
Mrs. Hrund Skulason
Mrs. Ingibjörg S. Goodridge
Mrs. Sigrun Thorgrimson
Miss Halla Josephson
Miss Lily Eyolfson
Mr. R. Bergson
Mr. Andrjes Björnson
Mrs. Sesselja Oddson
Mr. Halldór Sigurdson
Mr. Roy H. Ruth
Mr. Olafur Bjarnason
Mrs. Ingun Steinthorson
Mr. J. S. Gillis
Mrs. Johanna Jonasson
Mr. Beggi Sveinsson
Mr. John Marteinsson
Mr. John Samson
Mr. and Mrs. Njáll O. Bardal
Mrs. R. Davidson
Mr. and Mrs. Palmi Johnson
Mr. Thorsteinn Thorsteinson
Mr. Paul Johnson
Mr. Jens Eliasson
Mr. H. L. Hallgrimson
Mr. Harold Hallson
Mr. and Mrs. Heimir Thorgrimson
Mr. Helgi Marteinsson
Dr. V. J. Eylands
Magnus Gunnlaugson
Mr. and Mrs. Axel Vopnfjord
Mr. Thor Thorsteinson
Mrs. Margret Thorbergson
Mrs. Valgerður Thorsteinson
Mr. Sumarliði Matthews
Mr. Sigurthor Sigurdson
Mr. Harold Westdal
Mr. Gunnar Erlendsson
Mr. Karl Hansson
Mr. and Mrs. H. F. Danielson
Mr. Helgi Olsen
Mr. Fred Thordarson
Mrs. Asta Oddson
Mrs. Oddný Asgeirsson
Mr. and Mrs. Paul Einarson
Mrs. Ljótun Young
Mr. Snorri Oleson
Mr. and Mrs. Jochum Asgeirsson
Mrs. Thorbjörg Brynjolfson
Prófessor and Mrs. Haraldur Bessason
Mr. Karl Thorkelson
Mrs. F. Kristjansson
Mr. Skuli Johannsson
Mr. and Mrs. Ben. Heidman
Mr. Skúli Böðvarsson

Mrs. Margret Gillies
Mr. Hallgrímur Axdal
Mr. and Mrs.
Olafur B. Olson
Hon. W. J. Lindal
Mrs. Valdheiður
Thorlaksson
Mr. Olafur Björnson
Mr. Ari Magnuson
Mr. Guðmundur
Bjarnason
Mrs. Lily Olafson
Mr. Olafur Olafson
Mr. John K. Laxdal
Mr. Valdimar Larusson
Mrs. Hrefna Sigurdson
Mr. Ásbjörn Pétursson
Mr. B. H. Sigurdson
Mr. Snorri Rognvaldsson
Mrs. Thora Jonasson
Mr. and Mrs. J. T. Beck
Mr. and Mrs.
Gunnar Baldwinson
Miss Margret Sigurdson
Miss Regina Sigurdson
Miss Guðbjörg
Sigurdson
Mr. and Mrs. Jakob F.
Kristjanson
Mrs. Rosa Johannson
Mrs. Ingibjörg Jónsson
Mrs. Rósa Sigfuson
Mr. and Mrs.
Hans Sveinsson
Mrs. Olafía Finnbogason
Mrs. Kristín Johnson
Mr. T. Valgardson
Mr. and Mrs.
Skafti Thorvaldson
Mr. Björn Johnson
Sister Laufey Olson
S. Oddson
Mr. Halldór Bjarnason
Miss Thorbjörg
Brynjolfson
Mr. Páll Johnson
Mr. Harold Johnson
Mr. and Mrs. J. Sigurdson
Mrs. Thora Jónsson
Mr. and Mrs.
Ágúst Guðmundsson
J. W. Swanson
Mrs. Johann Nordal
Mrs. Albertina Benson
Mr. Harold Johnson

**Deildin „Esjan", Arborg, Man.**

Þorbjörg Sigurdson,
(heiðursmeðlimur)
Herdis Eirikson
Gestur Pálsson
Johann K. Johnson
Jódís Brandson
Lára Sigvaldason
Veiga Johannesson
Tóta Vigfússon
Mrs. Lára Danielson
Kristjón Finnson
Ragnar Guðmundsson
Joe Magnusson
Beatrice Martin
Siggi Erlendson
Björn Bjarnason
Thórunn Líndal
Friðrik Finnson
Sigga Kristjánson
Björn Arnason
Inga Arnason
Andres Fjeldsted
Brandur Finnson
Victor Jóhannesson
Eymundur Danielson
Valdi Johnson (látinn)
Helgi Sigurgeirson
G. A. Williams
Gunnar Tomason
Ögmundur Markússon
Finnur Markússon
Gunnar Pálsson
Siggi Thorkelson
Gústi Helgason
Jón Jónasson
Helgi Sigurdson
Rósalind Pálsson
Jón Pálsson
Lilja Martin
Indiana Sigurdson
G. K. Oddson
Helgi Jacobson
Thorgrímur Pálsson
Lárus Pálsson
Gestur Vidal
Þórður Anderson
Maria Nordal
Kristín L. Skúlason
Óli Ólafson
Sigurdur Wopnford
Ragnar Karvelson
Gordon Danielson
Steinunn Bjarnason
Stefanía Sigurdson
Páll Stefánson
Jón Thordarson
Sigurður I. Sigvaldason
Wilhelm Pálsson

Simon Gudmundson
Thordís Thompson
W. S. Eyolfson
Málfríður Einarson
Guðjón Stefanson
Sigfus Hildibrandson
Emily Vigfusson
Guðrún Magnusson
Guðni Sigvaldason
Aðalbjörg Sigvaldason
Sigurður Sigvaldason
Eiríkur Einarson
Kristján Albertson
Kristín Benedictson
Guðríður Gislason
Axel Eyolfson
Laugi Johnson
Joe T. Jónasson
Sigurdur F. Sigurdson
Lara Magnusson
Johann M. Einarson
Guðrún Jónasson

**Deildin „Lundar"**
**Lundar, Man.**

Forseti
Kári Byron
Varaforseti
Mrs. Björg Björnson
Skrifari
Gísli S. Gíslason
Varaskrifari
Mrs. Rannveig Guðmundson
Féhirðir
Hjalti Johnson
Varaféhirðir
Mrs. J. Steinthorson

Mr. Ásmundur Freeman
Mrs. Ásmundur Freeman
Mr. Gísli S. Gíslason
Mr. Ágúst Eyjólfson
Mr. Oscar Thorgilson
Mrs. Ragnheiður Magnússon
Mr. Lárus Johnson
Mrs. Margrét Björnsson
Mr. J. A. Hávarðson
Mrs. Sigrún Johnson
Mr. Oli Johnson
Mr. Steini Gíslason
Mrs. Steini Gíslason
Mrs. Rannveig Guðmundson
Mrs. Björg Björnsson
Mr. Jón Steinthorson
Mrs. Jón Steinthorson
Mrs. Margrét Lindal
Mr. Leo Danielson
Mr. Hjalti Johnson
Mrs. Margrét Johnson
Mrs. Valdi Rafnkelson
Mr. Kári Byron
Mrs. Kári Byron
Mr. Steini Johnson
Mr. Jón Thorgilson
Mr. Barney Thorsteinson
Mr. Ólafur Hallson
Mrs. Ólafur Hallson
Mr. Leslie Johnson
Mrs. Emily Johannson
Mrs. Valgerður Scheske
Mrs. Kristín Pálsson
Mr. Rafnkell Eirikson
Mr. Elman Guttormson
Mr. Jón Guttormson
Mrs. Jón Guttormson
Mr. Leifur Pálsson

**Deildin „Gimli",**
**Gimli, Man.**

**Embættismenn**

Forseti
Benjamin Franklin Olson
Varaforseti
J. B. Johnson
Skrifari
Mrs. Bjorn Baldwinson
Varaskrifari
Mr. Bjorn Baldwinson
Gjaldkeri
Adolf L. Holm
Varagjaldkeri
Ingolfur N. Bjarnason
Fjármálaritari
Adolf L. Holm
Varafjármálaritari
Baldur Peterson
Skjalavörður
Mrs. Helgi Stevens

**Meðlimaskrá**

Mr. B. V. Arnason
Charles Arnason
Mr. Gordon Arnason
Mrs. Gudjon Arnason
Mr. Joe T. Arnason
Mrs. Sigridur Arnason
Mr. Ted Arnason
Mrs. W. J. Arnason
Geiri Austman
Mr. Helgi Benediktson
Mrs. Sofia Benjaminson
Mrs. Jonasina Benson
Mr. Timoteus Bödvarsson
Mrs. I. N. Bjarnason
Mrs. Helga Demedash
Mr. Einar S. Einarson

Mrs. E. S. Einarson
Mr. Harry Einarson
Mrs. Harry Einarson
Mr. Ingi Einarson
Mrs. Ingi Einarson
Mr. Palmi F. Einarson
Mrs. G. Eyolfsson
Miss. M. Halldorsson
Miss. Sigridur Hjartarson
Mrs. Adolf L. Holm
Dr. A. B. Ingimundsson
Mrs. A. B. Ingimundsson
Interlake Insurance Agencies
Mrs. Gudny Isfeld
Mr. J. S. Gillies
Mr. Helgi Johannesson
Dr. Jonas G. L. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Mr. Jon V. Johnson
Mr. Jonas Th. Jonasson
Mr. Oli P. Josephson
Mrs. O. P. Josephson
Mr. Ted Kristjansson
Lestrafjelagid - Gimli
Gunnsteinn Magnusson
Mr. G. E. Narfason
Mrs. G. E. Narfason
Mrs. Ingibjörg Nelson
Mr. Dori Peterson
Mrs. Dori Peterson
Mr. Gudmundur Peterson
Mrs. Emma Von Renasse
Mrs. F. E. Scribner
Mrs. Daniel Sigmundson
Mr. Bjorn Sigurdson
Miss. Gudrun Sigurdson
Mrs. Margret Sigurdson
Mr. S. A. Sigurdson
Mrs. S. A. Sigurdson
Bjarni Sigvaldason
Mr. Eric Stefansson, M.P.
Mrs. Eric Stefansson
Miss. Sigurbjorg Stefansson
Mr. Valdimar Stefansson
Mrs. Valdimar Stefansson
Mrs. Laurence Stevens
Mrs. Norman K. Stevens
Mr. Bjorgolfur Sveinsson
Mrs. Ingibjorg Sveinsson
Mr. S. Th. Sveinsson
Mrs. H. R. Tergesen
Mrs. Lara Tergesen
Mrs. Gudrun Thompson
Mr. Bjorgvin Thordarson
Miss. J. V. Thordarson

**Heiðursmeðlimir Báru eru þessir**

Dr og Mrs. Richard Beck
H. B. Gremson
H. Olafson
J. C. Hallgrimson

**Meðlimatal „Báru" 1966**

Leonard Benson
Mrs. Ingibjorg Jonasson
Mrs. Augusta Johnson
Sylvia Stevenson
Mundi Goodman
Mrs. Matt Bjornson
A. M. Asgrimson
K. S. Johnson
Victor Sturlaugson
T. L. Hanson
John J. Einarson
A. E. Palson
H. M. Johnson
O. G. Johnson

S. A. Bjornson
H. J. Bjornson
Fred Halldorson
J. G. Hallgrimson
Joseph Anderson
S. F. Bjornson
G. B. Olafson
S. F. Steinolfson
F. M. Einarson
Mrs. J. A. Hanson
Leo J. Laxdal
G. A. Gudmundson
Albert Shephard
Helgi Laxdal
Mrs. Gardar Johnson
L. S. Jensen
Frank Hall
Alvin Melsted
Leo Meslted
Fred G. Johnson
Fred Olafson
H. S. Walter
K. Kristjanson
Mrs. Larena J.
Northfield
Theodore Thorleifson
Barney Einarson
Rodney D. Byron
Kenneth D. Indridason
V. G. Gudmundson
Stefan Indridason
Johann Geir
Mrs. William Stark
John Magnusson
Arnold Christianson
Mrs. John Axdal
Vilhjalmur Thorsteinson
Chris S. Gudmundson
G. J. Jonasson
Ivan Gudjonson
Helgi Finnson
G. Gudmundson
Helgi Reykdal
Steve Thordarson
Simon S. Johnson

**„Norðurljós", Icelandic Society of Edmonton**

Mr. and Mrs. Marvin Anderson
Mr. and Mrs. W. Arason
Mr. and Mrs. Art Arnfinson
Mr. Fusi Arnfinson
Mrs. I. Allerdice (L.M.)
Mr. W. Anderson (L.M.)
Mr. and Mrs. S. Benediktson
Mr. and Mrs. A. Arnason
Mr. and Mrs. D. Cameron
Mr. and Mrs. A. Campbell
Mr. and Mrs. L. Chmelyk
Dr. and Mrs. Couves
Dr. and Mrs. Drummond
Mr. and Mrs. G. Eamon
Mr. and Mrs. A. Eyford
Mr. and Mrs. R. Eyford

Mr. and Mrs. F. Frederickson (L.M.)
Mr. and Mrs. F.
Mr. and Mrs. F. Fishburne
Mr. and Mrs. D. Florence
Mr. and Mrs. H. Garnet
Mr. and Mrs. G. Gislason (M.D.)
Miss Olive Goodman
Mr. and Mrs. B. Gudmundson
Mr. and Mrs. B. Halldorson
Mr. and Mrs. H. Halldorson
Mrs. I. Hawes
Mr. and Mrs. G. Hawthorne
Mr. and Mrs. R. E. Henderson
Mr. and Mrs. J. Henrickson (L.M)
Mr. and Mrs. Ingjaldson
Mr. S. Isfeld (L.M.)
Mr. and Mrs. J. A. Jackson
Mrs. J. P. Johannson
Mr. and Mrs. B. A. Johnson
Mr. Joe Johnson (L.M.)
Mr. M. Johnson (L.M.)
Mrs. O. I. Johnson (M.L.)
Mrs. I. Johnson (L.M.)
Mr. and Mrs. Johnson
Mr. and Mrs. R. Mac Farlone
Mr. and Mrs. R. McLennan
Mr. Dennis McLennan
Mr. and Mrs. C. McNaughton
Mr. and Mrs. A. Mitchell
Mr. and Mrs. L. Oddson
Mrs. Thora Orr
Mr. and Mrs. H. Olafson
Mr. D. Rognvaldson
Mr. and Mrs. G. Roland
Mr. and Mrs. C. Pollock
Mr. and Mrs. P. St. Pierre
Mr. and Mrs. D. Shaw
Mr. and Mrs. D. Smith
Mr. and Mrs. C. Smith
Mrs. M. Smith (L.M.)
Mr. and Mrs. B. Stevens
Mr. and Mrs. H. Sumarliðason (L.M.)
Mr. and Mrs. V. Tobiasson
Miss S. Thorsteinson
Mr. and Mrs. G. Thorvaldson
Mrs. F. Vigfuson
Mr. and Mrs. H. Vigfuson
Mr. and Mrs. E. Valgardson
Mrs. Viola Wallbank
Mrs. Rosa Benediktson
Mr. and Mrs. H. Bjornson
Dr. and Mrs. R. Decosse
Mr. Barney Eyford (L.M.)
Mr. and Mrs. H. Goodacre
Percy Halldorson
Mr. and Mrs. F. Hirst
Mr. and Mrs. E. Hordal
Mrs. J. Jannsen
Mr. and Mrs. J. Johannson
Mrs. Sadie Lee (L.M.)
Mrs. G. Vigfuson




## . . . there's an EASY way

to buy the things you need
WHEN you need them most!

## Open an EATON Budget Charge Account

It's the modern way to shop. You buy necessities when you need them, you take advantage of sales when they come along, you never have to pass up a good value because it's not convenient to buy just then.

An EATON Budget Account combines the convenience of a Charge Account with the advantages of a Budget Plan. No down payment and up to 24 months to pay — you get practically instant credit with your plastic card — with no returning to the Accounts Office.

Get full details now at the Customers' Accounts Office, EATON'S Eighth Floor. Dial SUnset 3-2115.